# Rimur

af

# Gísla Súrssyni

orktar af

Sigurdi Breidfjörd.



Útgefari J. B. Breidfjörd.

Kaupmannahöfn.

Prentadar í prentsmidju S. L. Møllers.

1857.

Um leid og rímur þessar eru gefnar út, vil jeg geta þess, ad handrit þad, sem þær eru prentadar eptir, er, ef til vill, ekki hid bezta, sem til kann ad vera, ad minnsta kosti er þad ekki ritad af skáldinu sjálfu; en med því jeg vissi ekki, hvar hans eigin handar rit er nidur komid, vard jeg ad láta mjer lynda med þetta; jeg þykist og mega fullyrda, ad þad handrit, sem vid prentunina er notad, er, ad mestu, ef ekki øllu leyti, samhljóda og rjett skrifad eptir frumritinu sjálfu. Jeg hef getid þessa einungis til vonar og vara.

Jeg er viss um, ad landar mínir taka eins vel á móti þessum rímum og hinum fyrri eptir sama høfund; jeg vona því og óska, ad þær megi stytta þeim marga stundina.

Utg.

# Fyrsta ríma.

Þig tilbiðja enn jeg á Iðun, drottning ljóða, Voldug gyðja gimli frá, Gættu minna hljóða.

Þú, sem forðum fræðin skráð Fæddir söngva vorra, Gæddir orðum anda og dáð Okkar barna þorra.

Þú, sem kvæðin þarfsamlig Þanka leystir böndum, Þegar í næði Núma og mig Næsta leiddir höndum.

Ein þú sást um efni vor, Undi hjá þjer sála, Kenndir ástir, kænsku og þor Konungsins að mála.

Mitt er annað máls of far, Mærð ef núna lengjum, Æði bannað offóknar Ískrar á mínum strengjum.

Þó heiptar eitur höndum tveim Hvessi brodda sína, Lát í heitum háska þeim Hetjuna standast mína.

Lát hann fjanda lina dug Og lúka dögum þræla Og deyjanda í ofurhug Offóknirnar fæla.

Hann þótt níði hatur stærst Og heiptar frændur kaldir, Gef um síðir hrósið hæst Honum langar aldir.

Frábært stríð og frægðir hans Flestum verði kunnar, Hróður prýði hreysti manns, Hærur Eykonunnar.

Lífgi kvæðin lundirnar, Leiða' og mæðu sljófgi, Gjálpar klæða grundirnar Greina ræður frjófgi.

Dvíni góðum dægur löng Hjá daufu kvæða skvaldri; Gísla bjóðum Gíslasöng, Guða fræða Baldri.

Ungur fóstri Adalsteins, Ødling Hákon rjedi Norskum lýd og landi eins, Þá letrud sagan skedi.

Hersir nokkur Þorkell þá Þadra dølum rjedi, Sjer til konu unga á Jøgerdi á bedi.

Sonu þrjá vid sørfa eir Sigtýr átti hneita Ari, Gisli' og Þorbjørn þeir Þegnar fengu ad heita.

Vegur þeirra vel fram gekk, Vaska teljum slíka, Ingibjørgu Ari fekk Jsa dóttur ríka.

Berserkur um byggdir rann, Bjørn var sá ad nafni, Skora menn til víga vann, Vondra trølla jafni.

Fengisamt því vondum vard, Vid hann hrædist lýdur, Eittsinn kom á Ara gard Og illa kosti býdur.

„Verstu vid mig," Bjørn svo tjer, Blódi klædist røndin, „Eda seldu' af høndum hjer Húsfrú, bæ og løndin."

Ari tjer vid illan mann: „Ekki skal jeg seinni, Heldur en jeg og húsfreyjan, Ad hádung verdum einni.

Hólminn koma æfir á Egg ad holdi smýgur, Adur hildar eli brá Ari bóndi hnigur.

Lofa mundi happa hønd Hinn um sóknar vøllu, Þóttist vinna víf og lønd, Velkominn ad øllu.

Hvar þau løg í løndum fest Lýdir hafa kænir Ríkir læra mega mest Mikid gódar bænir.

Ingibjørgu og ødrum þad Illa sýnist fara, Gætir þess og gildur kvad Gísli bródir Ara:

„Heldur skal jeg láta líf Líka blóds á vangi, En ad þessi ørløg stíf Í ættir vorar gangi.

Honum svarar nistis nipt Nógum trega slegin: „Ádur en var jeg Ara gipt Att þig hefdi fegin.

Hjer er þræll ad høppum sljór, Heitir Kolur digri, Grásida hans geirinn stór Gjarnan stýrir sigri.

Bid þú hann þjer brand ad ljá;“ Brátt þeir koma' ad mæli, Nýtur vann med naudung fá Naglhringinn af þræli.

Hessja svo á hólmi strid Hetjan Gísli' og Bjørninn; Grimmdarleg var hrotta hríd, Hørd var sókn og vørnin.

Berserkurinn blóds í tjørn Bana vard ad finna; Þjer var kann ske betra Bjørn, Ad bidja um nokkud minna.

Ekki Gísli ættum frá Unga konu gefur, Eptir þetta einatt hjá Ingibjørgu sefur.

Kolur heimtir hjørinn sinn, Honum fylgir skadinn, Lausan ei vill láta hinn, En lofar fje í stadinn.

Þrællinn bregdur benja ljá, Bóndann særdi klunni, Heggur Kol í hausinn þá Hann med Grásídunni.

Sverdid þar í sundur gekk, Sárna mátti honum; Kolur bædi' og bóndinn fjekk Bana' af vidskiptunum.

Þorkel hersi ellin á Eptir það nam vinna; Eignast Þorbjørn álnir þá Allra frænda sinna.

Setti bú i Súrnadal Sem á Stokkum heitir; Þóra nefnist hún, sem hal Hjúskaps tryggdir veitir.

Arfa gat ad eiga þrjá Alfur nødru leita Gísla, Ara og Þorkel þá Þegna lætur heita.

Þorbjørns dóttir Þórdís var, Þokka kvendid blída, Fegurd yfir flestar bar, Þótt farid væri vída.

Bóndi ungur Bárdur hjet Bjó á Grannaskeidi, Þrátt ad Stokkum þreytti fet Þordísar á leidi.

Verøld ill og ósidlát Med ótal tungum þvætti, Ad hann hefdi fleira fát Fljódid vid, en mætti.

Illa kunni Þorbjørn því, En Þorkell Bárdi unni, Gísla þróast þykkja ný Þagnar djúpt i brunni.

Þorkel eittsinn Bárdur bad Braut med sjer ad troda, Gísli líka gekk á stad Girtur óma roda.

Bæja þeirra milli mitt, Medur hug órøgum, Gísli lætur sverdid sitt Svæfa Bárd af døgum.

Þorkell reidast þessu vann Þundi orma dala, Gísli brá á glens vid hann, gjørdi svo ad tala:

„Vopna skipti og vingan flest, Veitast skal þjer kæri Eig þú þau sem bita bezt, Svo Bárd ei optar særi.“

Nidur settist Þorkell þá, Þadan Gísli tredur, Sínum greinir fødur frá Fregnin kallinn gledur.

Skeggi nefnist seggur sá Á Søru eyju byggdi Bárdar frændi; þennan þá Þetta nokkud styggdi.

Þorkell yfir þykkju bjó Þádi víst med Skeggja, Hann mót sínum hlíra þó Hefnda nádi eggja.

Hann vid skeggja hraustan þá Hafdi líka í rádum, Ad sinnar skyldi systur fá; Semur þetta bádum.

Þá ad Stokkum tugir tveir Traustra bragna fara, Bónord vekja þetta þeir, Þorbjørn nádi svara:

„Bedid hefur búi minn Brúdar sjer til handa Kolbjørn heitir, hann jeg finn Hugnast þrúdi banda.“

Skeggi Kolbjørn skorar þá Skjøld og sverd ad reyna, Hinn kvadst skyldi hætti á, Heldur en firrast meyna.

Hólmgangan í Søru sú Sett var týrum fleina; Skeggi búast nádi nú, Nóga hafdi sveina.

Kappinn Gísli Kolbjørn þá Kvedur þetta vidur; „Hann sjer ekki hólmum á Hvata skuli midur.“

„Mun jeg ekki,“ mælti hinn, „Meyjar vegna nenna, Ad tuskast vid svo trøllaukinn Tyrfings blada hlenna.“

Gísli tjer: „Fyrst æru án Ekki viltu fara Og þótt verdir allur smán, Eg þeim málum svara.“

Gísli fer með garpa tólf Gust að reyna eggja, Kemur fram á glímu gólf, Gengur móti Skeggja.

Gunnlogi sá geirinn hjet Gildur Skeggi reiddi, Þessi opt í feigðar flet Fræga bragna leiddi.

Hjörinn nær við höggi skall Hann kom orðum stífum: „Eyjan Saxa glumdi, gall Gunnlogi á hlífum."

Gísli spjóti beittu brá, Býsna fylgdi kraptur, Skeggi fótinn missa má; Mælti Gísli aptur:

„Af er hrokkinn hræfrakkinn, Högg jeg Skeggja greiddi." Sefast nokkuð hrikinn hinn, Af hólmi leysast beiddi.

Af þeim fundi hrjáðan hratt Heim þeir bera manninn Staur hann undir stúfinn batt Staulaði síðan þannin.

Með Gísla þaðan Þorkell heim Þáði nú að fara; Ekkert skaðar angur beim, Ástir bræðra vara.

Synir Skeggja Sörn frá Sátu' á Flyðrunesi; Leiðir seggir lið til sá, Að lensu vindar bljesi.

Sex þá verða tugir til, Sem týna vilja friði; Njótar sverða um nætur bil Nýðings æfa siði.

Garpar riðu grana fljóð, Glumdi' í hildar rokkum, Bera síðan bál og glóð Bænum að á Stokkum.

Þorbjørn sjer og synir þá Sizt má skada blifa, Í sýru ker, sem hafa hjá, Hafur gærum dýfa.

Verjast eldum þannig þeir, Prisvar logann slokkva; Gísli veldur mætti meir, Mølfar vegg-inn kløkkva.

Ut þar kreikad frægir fá; Fimm svo bjargast tvennir; Fylgja reyk, til fjalla ná, En funi húsin brennir.

Tólf þar inni feigdar føll Fengu af brøgnum snaudum, Meintu slinnar mædgin øll Myrt í loga raudum.

Gísli fer í Fridarey, Flokki safnar manna; Kaupa gjørir frægur fley Flydru lønd vill kanna.

Selja løndin seggir þá, Sextíu bragnar verda, Súda ønd, er synda fá, Segl og strengi herda.

Freyrar randa af fáki hljes, Fyr en reisu kanna, Fara' á land í Flydrunes Fjórir tugir manna.

Skeggja syni fundid fá Freyrar linna valla, Helja ginid glennti þá Og gleipti brædur alla.

Heim ad bænum haldid fá Hinir og skoda þingin; Flestu ræna og flytja þá Fram á Haf-byrdinginn.

Gísli brá sjer enn þá inn, Ádur þadan strjúki; Í skilnad þá vid Skeggja sinn Skar hann haus af búki.

Hvergi er fridar hæli traust Huganum ad ad snúa, Þegar sida' og laga laust Lönd og þjódir búa.

# Önnur ríma.

Líkt og sá sem litlum stýrir báti Landi frá og fram á höf, Fælist storm og bylgju köf.

Sem í róti Ránar viltu barna Til beggja hlida blindur er, Bjargir engar fyrir sjer.

Langt í burt til landa þó hann dreymir, Hrakinn sínu hæli frá, Hrædist um, hvar lenda má.

Svo er jeg af svæsli leti minnar Sagna dreginn djúpid á, Deili kann ei ferda sjá.

Ærin lengd á uppbyrjadri sögu, Hrædir mig sem höfin blá; Hinn er keirist landi frá.

Ornefnin og ordamælgi seggja, Bløstra mjer sem báru föll, Banvæn sýnist leidin öll.

Ekki veit, hvort audnast mjer ad fara Heillrar sögu langa leid, Því lifid heldur fram sitt skeid.

Er jeg því í allra mesta vanda Fyrst ad mjer í fang jeg tók Furdu mikla sögubók.

Eins og hinn, sem undan rekur landi, Aptur heim má ekki ná, Á fram nú jeg keirast má.

Bædi skal jeg byrgjast augun láta Mín, í ljóda lúkurn- ar Og lesa gódu bænirnar.

O! hvad hef jeg Odin födur skálda Smánad, styggt og fælt mjer frá? Fjarlægt er ad bjargi sá.

Idun lætur á sjer stundum skilja, Ad jeg nóg sje kvenna kær, Og kann ske vid mjer lausu slær.

Undan mjer þó allar dæmist konur, Hrakinn út á hródrar sjó, Henni skal jeg treysta þó.

Þorbjørn, Gísli, Þorkell annar niður Skipið láta leita' á høf, Lengi blakta siglu trøf.

Hundrað dægur hrafni veltu súða, Ægis dætur yfir mar, Opt og tíðum mislyndar.

Ísland við þær óra lægðu sína; Skipið leiddi Dúfa og Drøfn Á Dýrafjørð í eina høfn.

Seggir komu sunnan megin fjarðar, Haukadals þar heitir ós, Hestur verður bundinn sjós.

Þennan tíma þaðra megin fjarðar Þorketill við síla sal Á Saurum bjó í Keldudal.

Nafni hans þar norðan fjarðar byggði, Auknefndur hinn auðgi var, Alviðru sá byggði þar.

Fyrstur sá af sveitar høfðingunum, Kom til skips á feðga fund, Fagnar þeim á alla lund.

Báðu megin byggðar voru strandir; Komu menn á fólgu ønd, Kaupa sjer því máttu lønd.

Þorbjørn Súr, hann þannig fjekk að heita, Síðan forðum sýru með Seið og eldi verjast rjeð.

Land sjer keypti, leysti føng af kneri, Reisa náði síðan sal Á Sæbóli í Haukadal.

Bóndi ríkur bjó í Arnarfirði, Vesteinn hjet við veiga gná Vænan son og dóttur á.

Gísli sonur Súrs Þorbjarnar frægi Auði sjer til ekta fær Afbragð flestra þótti mær.

Þessar mundir Þorbjørn Selagnúpur Í Tálknarfirði bústinn bjó, Bóndinn átti dóttur þó.

Ásgerður hjet ung og vænleg meyja; Þorkell sonur Súrs um þá Sætu bað og náði sá.

Þeirra faður, Þorbjørn Súr hinn gamla, Ellin tók í arma sjer Og til heljar sala ber.

Heygðu bræður hann, að fornum vana, Alnir tóku eptir bal, Einnig bú í Haukadal.

Í Breiðafirði bóndi næsta ríkur Þorskabitur Þorsteinn hjet Þórnesið hann byggjast ljet.

Synir hans við søgu koma vora, Børkur digri annar er Atti Þorgrím bróður sjer.

Þorgrímur, sem þótti gildur drengur, Erinda þó aukist gjørð Eittsinn kom í Dýrafjørð.

Hann kom líka Hauka fram í dalinn, Gista báðu garð hjá sjer Gísli' og Þorkell bræðurnir.

Veizlu honum væna blírar búa, Þórdís systir bræðra bar Borðin á og skenkti þar.

Vænleg þótti vera mærin unga Þorgrími, og brúðar bað, Bræður svara vel um það.

Brúðkaupið var búið kveldið sama; Kærðu lítið kempurnar Konungsbrjef og lýsingar.

Ungu hjónin eina hvílu taka Bræður síðan seima hrund Sæból fá í heimanmund.

Þorgrímur sig þangað vestur flutti. Annað byggðu býli þá Bræður fyrir handan á.

Hól þeir ljetu heita bæinn fríða, Túnin liggja saman sjer Sundur þar sem áin sker.

Mægðir kveiktu mestu vinalæti Má ske þá á þeirri øld Þvílík ást ei reyndist köld.

Þorgrímur sjer þingmenn valdi næga; Goðorðsmaður gjörðist þá; Gagn af sliku bræður fá.

Vorþing næsta vaskir mágar sækja; Skeiða láta fáka fans; fjóra hafa tugi manns.

Var þar yngri Vésteinn mágur Gísla; Skarinn næsta skreyttur var, Skein á gylltu hlífarnar.

Á litklæðum allur þeirra skari Var, svo hvergi vænni sá; Virðar sækja þingið á.

Oddleifs var þar arfur Gestur spaki Þorkel' auðga þessi með Þyggja búðarsetu rjeð.

Haukdælingar háar búðir tjalda; Mágar þeir við mála glaum Mjaðar láta flóa straum.

Allir voru aðrir þá við dóma; Maður fundinn mága á Mikillátur kemur þá.

Arnór hjet hann óðamála sagði: „Öðru sinnið engu þjer, En ölföngin að sötra hjer.

Þingmenn yðar þrætum gegna verða, Aðstoð litla af yður fá; Allir þetta tala og sjá."

Gísli mælti: „Göngum vjer til dóma, Má ske fleiri mæli slíkt Og mikið ekki virðist ýkt."

Fara mágar fjórir þá til dóma; Þorkell spyr, hvort einhver er Aðstoðar sem þurfi hjer.

„Liðsemd vora lítt skal yður spara, Þarsem göngum allir að Autt mun varla sæti það."

Þorkell auðgi þessu náði svara: „Þurfi einhver yðar lið Um það beðnir verði þið."

Mörgum þótti mikið um að vera Mága þeirra makt og skraut, Með það snúa þeir á braut.

Þorkell audgi þá vid Gest svo tjádi: „Hversu lengi byggur þú Haldisi frænda vingan sú.

Gestur svarar: „Geta þessa mætti Þegar sumar þridja er Þeirra hættir breyttu sjer."

Ordin þessi Arnór heyrdi lika; Haukdælanna hleypur til, Hermir eins á þessu skil.

Mælti Gisli: „Mikid um þeir tala; Varast skulum vjer þad fár, Ad verdi þeirra sannar spár.

Okkur sje jeg eitt til gódra ráda Fjórir skulum festa' í dag Fremur okkar brædralag."

Um þær greinir öllum saman kemur, Bindast vilja eida í, A odda nokkurn ganga því.

Jardarmen af jólnis konu baki Ristu þeir, en endar á Eru fastir velli þá.

Málaspjót þar mágar undir setja, Hærra ei en hendin kann Hafa tak um geirnaglann.

Allir fjórir undir skyldu ganga Vesteinn, Gísli og Þorkell þá, Þorgrímur svo fylgja má.

Allir sídan á sjer vökva dreira; Sýgid blód, þar særist hold, Saman hræra þeir vid mold.

Falla sídan fram á knje sín bædi, Eid vid godin ginheilög Greinilegan sóru mjög.

Hvor skal annars hefna grimmilega, Fjelli einn í eggja dans, Eins og væri bródir hans.

Hjer næst áttu höndum saman taka. Þorgrímur nam þetta tjá: „Þungur fellur vandi á.

Minum þó jeg mágum festi eida Ekki þurfum Vesteinn vjer Vandrædum ad bindast hjer.

Ekkert vid þig á jeg skyllt ad kalla." Ad sjer kippti hendi hann. Hjer til Gisli svara vann: „Okkar handtøk eins þá bida verda, Ef minn bródur Vestein vid Viltu þessum brjála frid."

Þar vid hætti, þótti engum betur, Gisli tjer vid Þorkel þá: „Þetta gjekk sem von er á.

Ei mun svo til einkis farid hafa." Meir ei vard af málum þeim; Med þad allir ridu heim.

Farsæll er sá fridinn semur blida; Hinn sem rekur hann frá sjer I heilla sekur tjóni er.

Stundin ein kann opt til meina snúa, Þunga lesti þroka vid Þeir, sem beztan meida frid.

---

# Þridja ríma.

Strengi ljóda ad herda hjer Hugann þreytir lúna; Kvæda góda gydjan mjer Gleymir held jeg núna.

Hví vill Ydun ástúdleg Ad mjer baki snúa, Eg tilbid og elska þig Eina, máttu trúa.

Dofna sjer jeg muna mjer Og máttinn kvæda hagan, Má og vera þessi hjer Þóknist ekki sagan.

Vid þótt hrausti háttur minn, Ad hnýta søgu slagid, Hún er dauf í dálkinn sinn Og dádlaus annad slagid.

Søng vid hryllir, sagan mjer Sýnist snillivana; Svikin ill og ofsóknir Alla fylla hana.

Hitt á brjefum sagna sjest, Sem er mest í varid, Gísla hefur mærum mest Manndómlega farid.

Hjá þeim lýd, er hrjádi frid Hvergi prýdi lakur, Atti' ad strída vanda vid, Var þó tídast spakur.

Snotur hetja, hygginn, trúr, Huga' og máttar þrekinn, Gæfan ljet þó gæzku klúr Gísla frá sjer rekinn.

Hún er blind, það vitum vjer, Verðugleik ei metur, Opt því synd og hrekki hjer Á hæstu stóla setur.

Hennar vani er van og of, Votta hugir bitrir, Því um hana lítið lof Løngum syngja vitrir.

Samt ómóð skal hefja hljóð Og hreifa Odins kerum, Meðan glóða græðis bjóð Gísla hróður berum.

---

Framan af græði fleyttu þeir Friðri skeið að landi, Norskir bræður nýtir tveir Neglu stýrðu gandi.

Þórir má og Þórarinn Þessa bræður nefna; Móts við þá í þetta sinn Þorgrímur nam stefna.

Búnka viðar hlírum hjá Hetjan kaupa rjeði; Vel í sniðum virðar fá Verð, sem á er kveðið.

Viðinn fyrst ei flutti með Fram sá taldi virði, En austmenn vísta Oddur rjeð Á Eyri í Skutulsfirði.

Því næst sendi Þorgrímur Þangað friðan arfa; Við afhenda vænlegur Virða beiddi djarfa.

Þótti vana viðinn á, Vann á bræður deila; Honum bana fólin fá, Fleinninn stóð í heila.

Þorgrím reiðin þvinga má, Þræla fer að leita; Upp við heiði hitti þá, Hvar þeir matar neyta.

Hrottann dregur hefnda snar, Herðir járna fundinn; Báða vegur bræður þar; Blóðug verður grundin.

Þar sem rann um heidar hjall Heitur dreyri seggja Þar Austmanna — þekkist — fall Og þeirra dysin beggja.

Hjer af frægur verda vann Vatna sólar þekur; Vors um dægur hlýju hann Hafskip brædra tekur.

Fram á bylgju fleytir skeid, Faldar siglu vodum; Þorkell fylgir fleina meid, Fjardar skaut upp bodum.

Hvals um vadal vekja rid Vindar adalbornir, Hvlgómadar hrína vid Hrannar stada nornir.

Nøldur vinda' ad Noreg þá Nadri hrindir ranga; Ferju binda', og frónid á Freyrar linda ganga.

Greinum frá, ad Gísli þá Gjálpar kaupir hjera; Kappann láar løndum á Laugar ferd ad gera.

Vesteinn ríkur rádin slík Rjedist eins ad voga, Skauta slík úr Skeljavík Skipid láta toga.

Ekki midur mága þá Marinn leikur vidur, Bylgjur ida bordum á, Byrinn flutti vidur.

Báran stundum bretti skaut, Byrinn mundi vara, Dægra hundrad húna naut Á høgum undi þara.

Storma fylgdu føllum rid Fram ad Hørdalandi, En þar skildu illa vid, Ormi hljes ad grandi.

Hýddu sundur háan knør Hrikaleikir boda; Bragnar mundu fje og fjør Frelsa þó úr voda.

Tjørgu álfa tók í før Túnin yfir svana,

Hjet Skegg-Bjálfi, hann á knør Hjelt að veldi Dana.

Gísli þar um vetur var Og Vesteinn eins í náðum, Virðingar og vatna skar Veittist mikið báðum.

Þegar vor með værri kjør Vinda gjørði spaka, Bjálfi þorir búa knør Bólmey undir klaka.

Gísli ber sín føng á fljót, Fylgdi sverða brandi, En Vesteinn fer á vina mót Vestur að Englandi.

Mágar skilja þá við það, Þandi Bjálfi voðir, Kraptur bylja bar á stað Báruvotar gnoðir.

Stormar freyða' um víðan ver, Vaka ránar meyjar, Þar til heiðar hærur sjer Hrannar þekju eyjar.

Bragnar skírir leita' á lønd, Látra rýrist gjørðin, benti stýrið ára ønd Inn á Dýrafjørðin.

Leiðir skildu þá með þeim, Þáði Bjálfi knørinn; Riðnr gildur Gísli heim, gæfu drjúg var førin.

Þar er fyrir Þorgrímur Og Þorkell Gísla hlýri, Notað byrinn hefur hvør Hrannar yfir mýri.

Hafa gagn og heiður sjer Høldar líka fengið; Mikið fagnast mágarnir, Með það heim er gengið.

Sezt með stát á Hóli hár Heima Þorkell aptur, Ofurláti, iðju smár Alma þótti raptur.

Gísli starfar mest sem má Munað heim að draga, Beggja þarfur búi sá, Bæði nótt og daga.

Vel þá falla vedurin, Vaskur sína þegna Kvedur alla eitthvert sinn Engja störfum gegna.

Þorkell verdur eptir einn, Í eldaskála sefur Eptir verd, því aldrei neinn Engja starfa hefur.

Ei var þröngd um eldskálann Alfa Sifjar badma, Teljum lengdar tvítugan Og tíu breidan fadma.

Þorkell lá þar þolugur, Þangad engir vitja, Audur þá og Ásgerdur Úti á dyngju sitja.

Þorkell slýngur vakna vann, Vísa heyrir skvald-ur, Leynt ad dyngju lædast kann Loga tjarnar baldur.

Þá Ásgerdur þannig fer Þýd vid hina' ad skrafa: „Audur, skerdu skyrtu mjer, Skal þá bónd-inn hafa."

Audur metin ansa vann Orma tróda hlída: „Eg þjer betur ekki kann Á hann klædin snída.

Veit jeg kynnir vel um sjá Og virtum beita sínum, Ef mættir vinnu veita þá Vestein bródur mínum."

„Sanna mun jeg sögu þá", sagdi hin og stynur, „Helzt jeg una midur má Mjer er horf-inn vinur.

„Vissi' jeg ádur", Audur tjer, „Allt um beggja hagi, Þarum bádar þegjum vjer, Þad fór allt med lagi."

„Brixl þad engin eru mjer," Ansar mærin ríka, „Vesteinn drengur valinn er, En veit jeg nokkud líka."

Sóktir þú á Þorgríms fund, Þorsum sinntir beggja, Fyr en brúar geisla grund Gísla í faðm nam leggja."

Auður vann að ansa þá: „Engin var það søkin, Gísla manna fyrstan fá Faðma ljet jeg tokin.

Slíku hættum hjali vjer, Heimskan út sjer læðir." Þorkell gætti þess, hann fer Þeirra til og ræðir:

„Heyr ørlygi! heyrum mál! Heyr ódæmin meiri! Manna slagi' í unda ál Eins eða má ske fleiri!"

Skundar inn frá skorðunum Skykkju', Auður tjáði: „Illt af kvinnu orðunum Einatt leiða náði."

Mínar blíðu meyjarnar, Má jeg voga' að segja, Opt og tíðum ykkur var Allt eins gott að þegja.

Byrgi niður brjóstin sjúk Baga orðin meiri, Því tungan yðar eins er mjúk Og allir limir fleiri.

---

# Fjórða ríma.

Kært er mjer ef kynni miðla kvæðum vænum, Vinum bæðum og vitrum konum Vísur raula í skammdægronum.

Alla krapta uggir mig jeg einatt veitti, Stúlkum þegar støkur þvætti, stundum líka margar kætti.

Jeg hef kvenna hrósið haft í hæstu nótum, Fyrir það hjá fríðum snótum Fagnað mørgum ástarbótum.

Margir þeir, sem mynda bóka málin fróðu, Hafa lastað hrundir fríðu, En hallast þó að kvenna blíðu.

Hafa þeir í himininn með hrópi klagað, Að kvenna skap sje illa agað, Aldrei svo þær geti þagað.

Að þær snapi illmælin um okkar byggðir, Við þau sjálfar limi lygðir, Lesti hrós og byrgi dygðir.

Að þær sínum eigin skømmum ekki leyni, Ef øðrum geta gjört að meini, Glæpina svo fjølga reyni.

Að þær hafi eitruð hjørtu og orðin bæði, Af tryggðalausu tryllist geði, Sem trúskap aldrei halda rjeði.

Þetta eru' nú þeirra orð um þýða svanna, Fyr skal jeg á báli brenna, En braginn undir taki þenna.

Fyrri skal jeg høndum, haus og hjarta tapa Og allur burt úr heimi hrapa, En hafa ræður slíkra gapa.

Onei stúlkur! óhræddar þið eigið vera, Yðar skal jeg byrði bera Og Brírlin øll til skammar gera.

Eins jeg hef á yður traust ef allt skal segja, Mig þá heljar meinin beygja, að með mjer allar viljið deyja.

---

Húsfreyjurnar hugsandi um hagi slæma, Rjena ljetu ræðu gaman Rauðar eins og blóð í framan.

Auður mælti: „oss úr vøndu er að ráða." Asgerður nam andsvør þýða: „Ekki skal jeg þessu kvíða.

Þegar jeg með Þorkel leggst á þægum beði, Hendur um hans háls jeg breiði, Hygg jeg þá hann týni reiði.

Hann mun þetta halda vera høfuðlygi." „Aðferð þessi," Auður segir, „Ekki hygg jeg duga megi.

Eg mun Gísla øll vor segja orda kvædi, Bidja hann svo beztu ráda Í bóli þegar sem til náda."

Gísli kom frá heyjum heim þá húma nádi, Þorkell var med þungu gedi, Þannig vid hann Gísli tjedi:

„Mun þjer frændi meint af sótt," hann máli sneri, „Verr er mjer, en veikum farid, Vid um þad ei tølum parid."

Þorkell ekki þádi mat, en þá til hvílu Gengur hann med gremju og fýlu, Getur notid fata skýlu.

Asgerdur nam einnig klædin af sjer taka, Nidur vildi leggjast líka, Lagar bóndinn rædu slíka:

„Asett hef jeg ei í nótt vid verdum bædi, Asa mín, á einum bedi." Aptur svara konan rjedi:

„Hverju gegnir, hætti skulum hafa nýja!" „Sæmir bezt um þad ad þegja;" Þá nam aptur bóndinn segja.

„Sízt þá mun jeg," sagdi fljód, „til sængur trodast, Mjer skal ekki meira leidast, Máttu velja um kosti greidast."

Vid mjer taktu og vertu ekki ad vømmum neinum Gleymdu øllum háttum hinum, Sem hafa þykist fengid skyn um.

Annars kalla' jeg votta vil og vid þig skilja, Heimanmundinn máttu telja Mjer, ef þenna gjørir velja.

Þá skal ekki þrengja' í rúmi þjer ad sinni,

Sofdu einn med ólundinni, En eg vil ráda hegdan minni."

Þorkell nádi þagna vid i þeli bitur, Loksins þannig glósad getur: „Gjørdu hvort þjer líkar betur.

Fletid ekki fyrst i nótt þjer ser jeg banna."
Rádagód var rausnar kvinna Rjedist nú til hvilu sinnar.

Utaf leggst, en ad þvi kom er audþoll spádi, Alla mýkti rúmid reidi, Rádin vissi banga heidi.

Ljóst er mjer þad lækning sje vid vid ljótri fýlu, Ad felast undir fata skýlu Og fadma snót i værri hvilu.

Allar nær þær á oss leggja ástar taugar, Niptir verda neista bugar Nokkurn veginn almáttugar.

Alsnaktar þær um oss kinda einhvern loga, Okkar kraptar ekki duga, Ossjálfrádir verdum hugar.

Hetjur þær i heimi mátti helztar finna, Allt sem gátu yfirvinna Opt þá hefur sigrad kvinna.

Karlmenn hygg jeg krapta þá hjá konum reyni Þeir sem ekki eru af steini, En eins og jeg af holdi' af beini.

Audur kemur eins i sæng hjá ektamanni, Beggja honum ordin innir, Oskar bónda reidin linni.

Ansar Gisli: „Ekki má þig um þad kæra, Einatt til má einhver vera Orlaganna mál ad bera."

Vann svo lída veturinn, en vorid ljómar, Þá til Gísla Þorkell kemur Þannig vid hann rædu semur:

„Svo er háttad, hlýri minn, mig hjedan tídir, Búi skipti frændur frídir, Fái hvor þad rjett til hlýdir.

Med Þorgrími mági okkar mun jeg dvelja.“ Gísla lítt þad var ad vilja, Vitur nádi aptur þylja:

„Brædra eign er bezt ad sjá í búi saman, Kyr jeg vildi værir heima.“ Verinn svarar flóa eima:

„Fara skal, en fyrst jeg burtu flyt af Hóli, Landid eignist lifri inn dæli, Lausafjárins til jeg mæli.

Þad svo fer, ad þessi skipti þegnar lúka; Angantýrar óma slíka Omegd sinni skiptu líka.

Børn þar ólu brædur tvø í búi ríka, Gudridur hjet gódlynd píka, Geirmund tel jeg sveininn líka.

Þorkell tekur þægan svein og þadan flytur, Meyna fóstrad Gísli getur. Gekk svo tími þann á vetur.

Var þá tídkad vetrar blót og veizlur frídar, Gísli nádi brøgnum bjóda Ur byggdum þar til horna flóda.

Aldrei Gísli æfdi blót, nje unni godum, Vinum sínum vidmáls blídur Veizlur gjørdi ei ad sídur.

Þangad kemur þorri manna þá úr Fjørdum;

Þessum talar Audur ordum Adur gengi menn ad bordum:

„Vantar hingad vininn minn og vænstan hlýra, Ad hingad kominn Vesteinn væri Vildi jeg oss til kæti bæri."

Var þá sagt, ad Vesteinn kominn væri af hafi, Og hingad mundi hófa dúfa Hetju brádum flytja ljúfa.

Mælti Gisli: „Minnst um sinn jeg mundi kjósa, Ad Vesteinn hingad vitji húsa, Vingan þó oss sýni fúsa."

Þorgrimur hjet þrýstinn kall og þótti kræfur, Hann var lika nefndur Nefur, A Nefstødunum búid hefur.

Framdi þessi svarta seid og særing reyndi, Grálundadur galdra fjandi Gódum sidum mjøg eydandi.

Þorgrimur og Þorkell budu þessum dára Hjá sjer nú ad veizlu vera, Verk hann átti lika' ad gera.

Gjøra átti gaurinn spjót med galdra hótum Ur Grásidunnar gømlu brotum, Svo gæti komid enn ad notum.

Þorkell bædi og Þorgrimarnir þessir bádir Allir voru ad því smidi, Engir máttu vita lýdir.

Víkjum til, ad Vesteinn ridur vestur Fjørdu, Koma nam hinn hugar hardi J Haukadalinn fyr en vardi.

A Sæbóli yfir vøllinn øtull keyrir; Geir-

mundur og gridka vóru Gardi hjá, med naut þar fóru.

Bæsir gridka beljurnar i býli nauta; Geirmundur sá garpinn nýta Gullintoppa skreyttum flýta.

Vesteinn þekkir vænan svein og vid hann rædir; Hann sjer kappann hrada bidur, Hjer ad dvelja gegnir midur.

„Vertu nokkud var um þig og viktu hjedan, Margt hefur breyzt i byggdum sidan Burtu fórst á æginn vidan."

Vesteinn ridur heim á Hól, i húsin kemur, Sæti tók vid sæld ónauma, Sjálfbodinn til skála strauma.

Bændum hafdi gridka greint, hjá gardi ridi Skjalda týr med skrautleg klædi Og skunda sá ad Hóli nædi.

Þorgrimur bad þvogu gerdi þangad dratta Og vita kvad hún sær ad frjetta; Fjósa dryllan gjordi þetta.

Gisla fram i gongum hitti grýlan hlóda, Litid vard ad fá til fræda, Fúl og stutt var þeirra ræda.

Hurd hann læsti hlaupa stelpan heim rjed flana, Ætid þótti' hún vizku vana, En verst leizt ollum nú á hana.

Veizlan þraut, þá vinid hefur vinglad alla. Sæti jeg vid svoddan bolla, Saman skyldi riman tolla.

Það er ekki því að heilsa um þessa daga; Góðar nætur Gísla saga, Gjald þú mjer að lokum bragar.

# Fimmta ríma.

Betra' en sitja og hengja haus, Hrjáður leiðindunum, Er að flytja fræða raus, Fingra þvita týr sem kaus.

Þegar tíðir barma hrjá Og heima gleymist kæti, Hróðrar níðist hörpu á, Hún um síðir slitna má.

Mærðar strengi' að murra á Mjer þótt farist illa, Hef jeg lengi þreytta þá Þegar drengir hlýddu á.

Vínið, kvæðin, vina ást Um vinda landið gríðar, Þegar gæðin þessi fást, Þanka græða meinin skást.

Auðlegð krafin ýmisleg, Á sem trúa flestir, Hefur lafað laust við mig, Þó látist hafi bjóða sig.

Hræsni blandast virðing við Og vekur seka drambið, Arma fjandans óvættið Æsir grand á báða hlið.

Völt eru líka völdin há Og vanda bundin klafa, Þó menn sníki þvílíkt á Þaðan svíkjast lukkan má.

Um þvílík gæðin glímir þjóð, Sem getur notað miður; Jeg með kvæðin, flösku og fljóð Frá mjer hræði allan móð.

Helli stundum staupin á Og strengi þvinga Braga, Sveipa mundum gullhrings gná, Glöð er lundin beggja þá.

Glatt er auga' og ond í mjer, Af því hef þann vanda, Að syngja, spauga' og hlæja hjer, Þá heimsins draugar barma sjer.

Að mjer blaðast opt jeg sá Áma strauma þunga, Samt skal vaða súðum á, En sönnum staða sneiða hjá.

Veður mjög á mjer í dag Margt óþarft í svörum, Við það bögu verður lag, En vinur sögu heimtir brag.

Ekki gleymist Gísli mjer; Gjørum þar ad snúa: Kempan heima' á Hóli er, Heldur dreyma illa fer.

Tvennar nætur sá í samt, Svefn þá efna hinir, Illa lætur, ei var tamt, Örlög sæta munu framt.

En nær þjódin þridju nátt Þar ad snarast bedi, Vedra hljódin meida af mátt Mænis tródu dýrid hátt.

Stormar veina' um fjalla far, Flóda hrídir vatna, Loptid hvein og hristi þar Húsin, steina' og grundirnar.

Votnin spýtast ekru á, Órar vara storma, Þeirra hlíta þróttur má, Þakid slíta húsum frá.

Húsin flæda himinstraum, Hrídir strídar vara, Konur æda og gjøra glaum, Garpar klædin fengu naum.

Gísli spratt hinn frækni frá Fljótast heitum bedi, Med sjer hvatti sveina sá, Svo þeir hratt úr bænum gá.

Vesteinn inni og Audur þá Eru kyr á bedi Og þræll er sinna þjónkun á, Þórdur slinni nefnist sá.

Gísla allir adrir med Úti bæta ad hevjum, Storma svallid rymjà rjed Og regna fall um svartnættid.

Hljótt og spakan hevra má Um húsin geisar madur; Liggur vakinn Vesteinn þá, Vodum nakinn undir lá.

Eigi fregnast um hver bar Eiturskeytid kalda, Bæsing þegn á bedi var Brjóstid gegnum lagdur þar.

Hremmdur grandi hjalar sá: „Hneit þar skeytid einum;" Upp vill standa', en stokknum hjá Steyppist anda ræntur þá.

Vigur allan vegandinn Vid i sári skildi; Launvig kallar sveitin svinn Svo til fallin vigsmálin.

Hver sem brandi nam ad ná Ur nauda raudu sári, Næst til standa þótti þá J þrumu randa hefnd ad fá.

Vaknar Audur, harma hljód Hefur dúfan sorfa; Vall um daudan Vestein blód, Vopnid rauda i hjarta stód.

Þórd hún beidir þræl ad ná Pundar tundri' úr sári; Hugar bleydi hann nam þjá, Hræddur skreid i felur þá.

Gisli þá i gátta jó Gekk og fjekk ad líta Hinn sem lá vid heljar þró, Hrottann bláa úr sári dró.

Laufann blódi litadan Læsti i kistu eina, Sýnir þjódum hvergi hann, Heiptar glód i skapi brann.

Bjó um náinn sidan sá Sidum tidar fylgdi; Vestein dáinn virdar þrá, Vini sá þvi marga á.

Vid Gudridi Gisli þá Greinir meyna unga: „Svanninn fridi Sæból á Sæk þú lýdi heim, og gá:

Hvad þar bragnar hafast ad Hjer um þjer jeg trúi, Ad flytja sagnir satt um það." Svanninn draguar þá af stad.

Blídleg snótin bænum þá Brádum nádi hinum, Vera fótum alla á Eisu fljóta týra sá.

Høkli grana hjúpadir Høldar gildir sátu, Báru svana bekkirnir Benvargana i mundum sjer.

Kvedjur seinar fljódid fær, Fátt var skeytt um rædur; Vesteins greinir mordid mær; Mál svo treina Þorkell nær:

„Frjett það heita hefdi mátt Hinar vina tídir, Þegar sveitum þótti dátt." Þorgrímr hreytir máli brátt:

„Hjer er madur hniginn sá, Er heidur bjóda ættum, A því hradast okkur hjá Utfarnadinn beztan fá.

Því ad vonum vjer á stad Verdum ferd ad gjøra Og fylgja honum haugi ad, Herm þú kona Gisla það."

Gengur sprund og Gisla þá Gjørir svørin bera, Kjólum þundar alla á Orma grundar týra sá.

Var Þorgrímur hardan hjálm Og hjelt á gelti sára, En Þorkell ímu þynnta skálm, Sem þyrfti skíma hildar sálm.

Þar er Refur Þorgrímur Þunna spannar búldu, A bænum hefur bragna hvør Brýnt i hnefum fagran dør.

Gisli náinn myrta med Og menn er þenna

bera, Á Sandmel háan halda rjed Heygja á þar valmennid.

Fyrir nordan Sæból sá Seggjum byggist baugur; Gísli horfdi hina á Halda' um stordid bænum frá.

Þorgríms manna þorra fri Þar ad bar med honum; Hauginn grannar hlada því, Hniginn mann þar leggja í.

Svona þá var Þorgríms svar: Þeim af heimi fara, Helskó ljá, þad háttur var, Ad hafa á til Valhallar.

„Vestein núna vanda þann Í vina skyni' jeg sýni;" Og svo skúna á batt hann; Ad því búnu mæla vann:

„Ekki kann jeg, höldum hjá, Helskó vel ad binda, Losni þannig festir frá Fótum manni helveg á."

Haugin undir orpinn þá Ítrir sitja mágar, Enginn lund nje edli brá; Um þá stund rjed Þorkell tjá:

„Er ei þjád af harma hátt Hrundin linda Audur." Gísli tjádi: „geta mátt Gerdi þráda kæti fátt.

Drauma rjed jeg rætta fá," Rædir fridur Gísli, „Vil þó kveda varla á Vígid sked hver mundi há.

Höggorm sá jeg hrökkvast frá Hjerna bænum einum, Góma ljá til bana brá Brjóstid dáins Vesteins á."

Engum segja øðrum það Ytum nýtum vildi, Um bæinn þegja bezt fer að; Baugs þá sveigir vísu kvað:

„Hugdum betra Vestein vjer Vænum rannar sýna, Þegar setur høfdum hjer Og horna ljetum flóa hver.“

Spyr til Audar Þorkell þá Þannig annan tíma, Hvernig dauda bródur brá Baugsins rauda vidur gná.

„Títt þú frjettir frændi' um það,“ Fridur rædir Gísli; Vitur netta vísu kvað; Virdar settu nú á stad.

Fylgjast brædur fram um hlad, Fyrir einir verda, Tók ad ræda Þorkell það: „Þung oss mæda stefnir ad.

Harmar sjer jeg, hlýri, þjer Huga drjúgum spenna, En lengst hver fer med sjálfum sjer, Samt jeg ber, hvad innra sker.

Vildi' jeg ljetir minnst, sem má, Menn á finna skapi, Þótt hjer getur aukist á, Ei til betra horfir þá.“

„Þinna vegna,“ hjalar hinn, „Hljótt skal þetta fara, Eins ef gegnir annad sinn, Ef jeg þegninn bidja vinn.

Kynni ad berast álíkt ad Adur lída stundin.“ „Það skal vera,“ Þorkell kvad; Þegnar snern nú í hlad.

Hraustir rekkar Hóli á Hornin þorna láta, Hugar ekki ama fá, Erfi drekka Vesteins þá.

Ekki tjáir þanka' ad þjá Þungum drunga sorga, Þeim sem má er heppni hjá, Hugar þrá ad bæla' í dá.

Stundarkæti stundum kann Stopull stapa heimur, Upp ef rætist ánægjan, Ástvin bætir sjaldan hann.

---

# Sjøtta ríma.

---

Hef jeg á spødum hrafnafjødur væna, Þetta drjúga eignin er, Ef nú fljúga tækist mjer.

Þá skal leti liggja' í fleti heima, Ein hún verda ekkjan má, Því eg mun ferdast vilja þá.

Þá skal fjúka fjøll og hnjúka yfir, Líki og andi eda ský, Óhemjandi verd jeg því.

Vina kynni vil jeg finna minna, Nordur Vesturhópi hjá Hólunum setzt jeg nidur á.

Hitta skyldi helgra milding dóma, Þá ef ætti hana hljód Honum þvætta færi ljód.

Og svo þadan ýmsa stadi skoda, Hvar jeg aldrei vistum var, Vid svo staldra hjer og þar.

Vid skáldin nordur skyldi ordum bítast, Flutt sem hafa fagra skrá, Og forna stafi minnast á.

Nordan meyjar margir segja vænar, Jeg ef færi' um jardir nær Jafngott væri ad skoda þær.

Einhver kynni kvæda minna njóta, Mig þar láta og líka' í kaup, Lítid pjáturs bjóda staup.

Ef svo ljeti lukkan vetur þennan Ordid get jeg auds hjá norn Átján vetra stundar korn.

Veikt er flug þó vønum huga lypti, Finn jeg nokkud eptir er, Med allan skrokkinn sit jeg hjer.

Slíkar ferdir fyrir verd jeg hæddur. Þessar fjandans freistingar Fipa anda gáfurnar.

Af øllu þessu, er jeg messad hefi, Finn jeg samt þá fræda grein. Fjødurinn skamt má draga ein.

Jeg má sitja' og søgu vitja minnar, Eptir þad nú idran finn, Illa kvad jeg mansønginn.

---

Njótar lófa neggja hófu leika, Um sem vann jeg vekja tal, Vetur þann í Haukadal.

Knattleik hafa huglar stafir linna, Gísli má vid Þorgrím þá Þreytast á og leikinn há.

Tídum manna milli vann ad bera, Hvor vid mesta hreysti bjó, Halda flestir Gísla þó.

A einni tjørn þeir eiga vørn og sóknir, Vesteins hjá sá haugi var, Høldar knáir leika þar.

Einhvern dag, sem á er fagurvidri, Fjøldi manna fer á kreik, Ur Fjørdum þann ad sækja leik.

Gísli tjer: „Þad gjørir mjer ad leidast Þorgrím einan etja vid, Adrir reyna komid þid."

Þegnar inna: „Þetta sinn vjer bádum Þig ad sækjast Þorgrím vid, Þar um flækist umtalid,

Hvor af ydur afli midur stýri, Høldar segja ad hlífist þú, En hafdu ei þann vanda nú.

Allir þjer vid unnum bera sóma, Afl ef meira er þjer hjá, Alma freyri láttu sjá."

Vitur tjáir; „Verda má þad reynist." Sídan leikast seggir á, Sóknir eykur Gísli þá.

Vanst Þórgrími varla glíman betur, Hnottinn missti', er halda á, Haudur kyssti fallinn þá.

Skinn af knúum skúfast nú og knjánum, Blóð úr vitum buna fer, Bjóður þvita mundar tjer.

Að Vesteins haug hann velti auga og tjáði: „Í sárum gnast, við guma stjá, Geir, en lasta ekki má."

Knøttinn Gísli glímu sýsli tamur, Honum sendi herðar á, Hann svo endur falla má.

Og þá spjallar ullur mjalla handar: „Bøllur stalli byrðar á Brast, en varla lasta má."

Þorkell tjáir: „Það hjer sjáum allir, Hvor þar meiri máttar er Mækja freyr og bezt að sjer.

Nú skal hætta hnattar slætti þessum." Við það linna leikarnir, Til landa sinna hver einn fer.

Fyrða knáu fátt varð þá á milli. Enn þess getur, øldin fljót Efnir veturnátta blót.

Þorgrímur Berki bróður sterka sínum Band og hefni Þórðar þá Þeim er nefna Eyjólf má.

Marga líka maktar ríka aðra Til sín kveður týrs á mey Að taka gleði' og blóta Frey.

Gísli býður búum víða sínum, Og úr firði Önundar Øllum virðum mágum þar.

Á Sæbóli sali kjóla hlynir Tjalda þá, en Þorgrímur Við Þorkel tjáir marglátur.

Oss þann greiða Gísla beið þú sýna, Refla virðum væna ljá, Er Vestein myrðum fjekk hann hjá."

„Allt veit hann, sem hófið kann að meta,"

Þorkell svarar, „því um frón Þessa spara mun jeg bón.“

Grímur tjer: „Þá gedjast mjer ad senda,“ Við Geirmund segir: „gaktu ástad;“ Gjora ei hann vildi það.

En Þorgrímur gekk ad imu Baldri, Høgg á vanga hinum sló, Hann kvad ganga skyldi þó.

Ungur svarar: „eg mun fara hljóta, En víst þjer ann jeg fylu ad fá, Ef solann þannig borga má.“

Geiri fer og Gísla tjer af ljetta, Líka ber hann bodin þá, Bauga verinn nádi tjá:

Viltu Audur vatna Haudum loga Stofu tjøldin litud ljá;“ Ljóma øldu mælti gná:

„Veit jeg þar um þú munt fara nærri, Hlyn-um nada heidurs til Hvorki' eg þad nje annad vil.“

Gísli þekkur gripi fjekk i hendur Hinum þó er hjá þeim beid, Med honum dró sig út á leid.

Þylja gerdi: „þína ferd jeg hefi Næsta góda gjørsa nú, Svo greida bjóda mættir þú.

Líkt þjer ber ad lidi mjer ad verda, Gjøfin hver til gjalda sjer, Greida hjer jeg kýs af þjer.

Lát i kvoldi lokuhold frá dyrum, Ef á kinn-hest Þorgríms þann Þig ad minnast fýsa kann.“

„A Þorkeli engin vjel ad búa,“ Geiri tjádi, gegndi fri Geymir dáda og neitar því.

Sveinninn tjádi: „sem þú nádir beida, Mætti lagast má ske þá;“ Med þad slagar burtu sá.

Kemur holdur heim med tjoldin gódu, Þeim

hann fleygir þegnum hjá; Þorkell segir: „raun er á,

Þolinmódur mest er bródir Gisli, Breyta midur mundum vjer Manninn vid, en okkur ber."

Þorgrimr tjádi: „Þad hans rád er betra Vorn ei lesta vinskapinn;" Virdar festa' upp refilinn.

Þá ad kvøldi þangad fjøldi ridur, Búinn vigri beittum hvur Børkur digri og Eyjólfur.

Á þessum fundi þá var hundrad manna, Í stofu skundar skatna lid Og skála sundin unir vid.

Gisli lika grimum slika lætur, Hálft er manna hundrad þar, Hornin spanna kempurnar.

Um pris og mæli menn þar stæla ekki, Eins og snúdug ágirndin, Sem á med búdar lykilinn.

Mjodurinn forni fedra hornin bleytti, Breid-um eikarbordum á Bjórinn leika mátti þá.

Gisli veitti vel af heittum midi, Hausa dofa flestir fá, Fóru' ad sofa' um kveldid þá.

Bóndinn sina bauga dýnu vidur Hjalar: „snarast hestum ad Hlýt jeg fara og sjá um þad.

Bid í dýrum brúdir kyr á medan, Ad nær slaga aptur frá, Áttu ad draga lokur frá."

Vopnid þad sem Vestein skada nádi Hann úr kistu hendir þá, Húsum bistur sneri frá.

Ad Sæbóli audur kjóla vendi, Honum kunnug hýsing var, Hjørsa gunnur byggdi þar.

Fyrst hann inn í fjósid vinnur ganga, Þrjátíu beljur básum á Til beggja telja hlida má.

Saman hnýtir hetjan flýti medur Nautum hala alla á, Ut án dvalar sneri þá.

Hetjan burdug bæjar hurdu finnur, Dyrum lokad ekki er, Inn hann þokad getur sjer.

Ljós í skála litur stála hlynur, Þar ad strá-um hendir hann, Í hvilu sá einn vaka mann.

Sá med hendi hægt sem tendra vildi Ljósid sløkkti', en Gísli gekk Um gøngin snøgt og þreifad fjekk.

Ad Þorgríms bedi þreifa rjed og finna Sørsa dokkin systir hans, Svaf vid stokk í rúmi manns.

Vaknar svanni og segir manninn vidur: „Høndin þín er helzt í kvøld, Heillin mín, svo ærid køld."

Tjer Þorgrímur tvinna gimu vidur: „Jeg skal snúast þá ad þjer Þetta nú ef betur fer."

Stód um hríd vid stokk og bídur Gísli, Í kápu sinni hlúir hønd, Helzt er vinna átti grønd.

Þorgrím sídan sára gridi lagdi, Gegnum manninn ganga rjed Grásídan og stód í bed.

Blódid hrundi um bed, og sprundid nána; Prýdilega unnid ad Engan veg má kalla þad.

Hefndargirni heidri spyrnir tídum, Svik ad gjalda svikum med Sældir skjaldan auka rjed.

Eitt til bóta er því ljóta verki, Veit jeg þjódin segir svinn Sjerhvern gódan jofnudinn.

# Sjøunda ríma.

---

Öllum gengur eitthvad til Idju finnar brøgnum spøkum, Ad jeg lengi ljóda spil Læt jeg byggt á sømu røkum.

Arma dækjan ólundin, Sem ásýnd hefur fyrna ljóta, Heim vill sækja huga minn Hvergi þó til neinna bóta.

Þegar hún kvædin heyrir þá Hún ei rædur ad mjer þrøngva, Vofan lædist sølfa frá, Því flestir hrædast draugar søngva.

Um þad sjá hjer Idun má, Ef ad þjáist raunum gedid, Hrekki smá og hugar þrá Hef jeg frá mjer tídum kvedid.

Ljá mjer øndu einnig þá Idun máttar søngva ríka, Ad geti fjøndum ødrum á Unnid sláttur kvæda líka.

Þeim ómilda er magna tjón, Myrda snild, en hefnda vona, Mín ef skyldi bíta bón, Byrja vildi' jeg hana svona:

Eitur dreki illur sá, Ad sem þreyngir Fytíóni, Þeirra leki lifur á Og leifi engu kvala tjóni.

Sín med ódu áþrifin, Sem engar mega varnir hlíta, Ætti á glódum innyflin Eiturfleygum góma slíta.

Og svo mætti aukast vid Innyflin um lengstu tídir, Eins og tætti óvættid, Svo aldrei linni kvala hrídir.

Bezt er þegja og byrgja mód, Brjála engum spektar vana; Bænin eigi yrdi gód, Ef jeg lengja færi hana.

Þad er betra bragar skrá Ad bjóda setri kærra vina, Søguletur líta á Og lamid geta ólundina.

Læt jeg hljóma ljód ódul Um landa skjóma' og fornar tídir Helgra dóma hærdum þul Helzt er sóma nægdin prýdir.

---

Þegar helja handa køld Hniginn mundi Þorgrím taka, Þordís beljar ód á øld, Alla bidur menn ad vaka.

„Bóndi minn á bedi er Bana stunginn nídinglega.“ Gisli sinna ferda fer Fram úr skála beina vega.

Gengt úr bæ var fram i fjós, Fljótast þangad sporin hvetur, Alfur frægi elda ljós, Ut svo þadan komizt getur.

Hurdu beimur binda rjed, Brautu sidan rakti þvera, Labbar heim og leggst á bed, Lætur ekki' á neinu bera:

A Sæbóli ædrast sveit, Olvinglađir skóku kolla, Enginn kjóla vidur veit, Vanda hvad þeim mætti olla.

Ord þá vekur Eyjólfur, Olfa frá sjer hristi rotid: „Hjer er frekur flónskapur, Fólkid allt er rænu þrotid.

Ljós og hyr um hýbýlin Holdar kveiki og leita nái, Vaktid dyr, svo vegandinn Vikid ekki úr bænum fái.“

Leitir sveinar fremja fri, Finnst ei nokkur adkomandi, Einhver meina inni því Ollad hafi sliku grandi.

Loks af degi ljómar brá, Leita eigi tjáir fremur, Dáinn heygja Þorgrim þá, Þambar freyjum öllum semur.

Þeir sextiu heim á Hól Halda nýju likfylgdinni; Gisli hlýjast hefur skjól Hvilu i med bedju sinni.

Þorkell snýr ad hvilu hans, Hetjan ró af

augum slitur, Freyrinn skiri frænings sands Fredna skó vid stokkinn litur.

Þeim hann ýtir undir skør Ekki vill ad fleiri sjái, Svo ad ýtar í hans før Engan grun af sliku fái.

Gísli fagnar fyrdum þá Frjetta sagnir bidur þylja, Þorgríms bragnar tjónid tjá; Talar Magni jøtuns ilja:

„Skammt á milli verdur víst Verka illra og stórrædanna.“ Nú med snilli bóndinn býzt, Band ad fylla hópinn granna.

„Þvilíkt ad oss eigid þjer,“ Yggur nada rjedi svara; Þetta hradast þegid er, Þeir af stad svo allir fara.

Haug þeir ná ad hlada' í svip, Hinum sá ei verdur minni, løggdu dáid lík í skip, Lykja á svo haugsins mynni.

Gísli þrífur býsna bjarg, Bar hann þad á knør ad notum, Eins og skífa skalf vid farg Skipid allt og lá vid brotum.

Þetta segja vitur vann Vopna sveigir máttar frekur: „Festa ei jeg kneri kann Kári fley ef þetta tekur.“

Heim svo þadan haugi frá Hvessings blada grímar skeida, Gísli kvad vid Þorkel þá: „Þjer nú ad jeg heimti greida.

Vil jeg nú, sem víst mjer hjezt Vestein þá vjer nádum heyja, Ad vingan nú sje brædra bezt Beggja;“ „já,“ nam Þorkell segja.

Veizlu knáir virdar fá, Vínid drjúgum lekid getur, Eptir dáinn Þorgrím þá Þursa' ad kúga hornin betur.

Ýmsum sýnast øsgar þad Og þá menn á baki skopa, Hallist víni einhver ad, Sem ekki nennir ad telja dropa.

En fedur gladir fornaldar Fylltu mjadar hornin stóru, Barka tradir bleyttu þar, En baknagadir minna vóru.

Veizlu á bádum bæjum sleit, Børkur sádi glód úr høsum; Gísli fjádur sína sveit Sæmdi dáda snotrum gjøsum.

Børkur þadan þeysti jó, Þorgrím nef sig lætur hugga, Kaudann bad ad kæfa ró, Kyngi ef nú mætti brugga.

Á manni þeim, er Þorgrím drap Þad skal spjallid tøfra hrína, Svo í heimi heiptar skap Honum allir nái sýna.

Rádin standa láta ljót, Litid hugsa til hins betra, Tøfra fjandinn fjekk á mót Feitan uxa níu vetra.

Galdra hundur hjall sjer býr Og heilan seid á einu bergi, Svika lundin særing knýr Svo til reidir fjanda ergi.

Nídinglegast søng vid seid, Svarta stafi risti glanni, Alla vega lyddan leid, Lánid af svo tøfri manni.

Á Sæbóli Børkur þá Búid dáins hlýra

krefur, Lífa stóla nødru ná Netta sá í arma vefur.

Lofnin klæda eigi ein Um þad leiti mundi vera, Því næst fædir Þórdís svein, Þorgríms heiti lætur bera.

Í skapi breytinn verda vann Vidur frídur salar boda, Sneru heiti, og snilling þann Snorra sídan nefndu goda.

Þar ósmeikur Børkur bjó Í bezta gengi og vísid spaka, Hafa leiki þegnar þó, Þykkja engin nádi saka.

Nefnd enn dækja Audbjørg ein, Annmarka hún byggdi stadi Æfdi klækja og galdra grein Sidi foraktadi.

Þad var systir Þorgríms nefs, Því hun fánm dyggdum skeytir, Dokkin bista dofra stefs Dreng sjer á, hann Þorsteinn heitir.

Sá ad leikjum seggja var Sagdan þá um vetrar tíma, Ekki veika burdi bar, Børkur á vid þann ad stíma.

Børkur endist illa vid, Undan flatt því snúa hlýtur; Þykkja brenndi þánka svid, Þorsteins knattartrje hann brýtur.

Nidur Børk á bláísinn Brynju draugur afli fremur Rak med hørku hardefninn, Hjer ad augum Gísli kemur.

Eggja rjed um glímu gong Gísli Steina ad hlífast minna; Honum ljedi hnattar støng Og hárs á mey nam sæti finna.

Þorgríms hann að haugi þá Haddar fjalla velti steinum, Kveða vann hann vísu þá, Er vænum halla kann að meinum:

Eg í túni teina sá Tálið Þorgríms vinar fálu, Geig við rúna gimu þá Gunnbliks norna á skeiði hálu.

Þórdís systir Gísla gat Greinir fest og ráðið líka, Nærri lista leiknum sat Lofnin hreysta glóða víka.

Leikinn slítur Þorsteinn þá, Prammar fljótast heim nær skyggði, Og Bergur nýtur honum hjá Hann Skammfótar-mýri byggði.

Um leikinn snjallir þrátta þó, Þóttust allir vel fram ganga, Búldu skalla Bergur sló Bráins fjalla týr á vanga.

Voru skildir þegnar þá, Því ei stóðu deilur fremur, Þorsteinn hildar harki frá Heim til móður sinnar kemur.

Kerling stundi ára ær, Amað þótti vera sveini; Ekki blundað fuglinn fær, Fer um nóttu út í leyni.

Bumbult marar báls er gná, Ur bænum nær þó út að skríða; Harka var og heiðríkt á, Hvergi blær um dali fríða.

Akar fæti andhælis Öll um strætin dyggða vana; Gangi hún ætíð góðs á mis, Gæfan tæti sízt um hana.

Loptsins nasar eðli að, Í áttir snýst og

vidrar trýni, Eitthvad las hún ljótt vid þad, Og langar víst ad slíkt á hríni.

En á medan kindin klók, Kuklid mædist þannig vidur, Bylja vedur vara tók Og vatna flædi helti nidur.

Bresta flód úr fjalli vann, Fjell á sali, er Bergur átti, Tjørgu rjód vid tólfta mann Tjódra í kvalir heljar mátti.

Þar sem nidur hljóp um hjall Helling þver og eyddi vegi, Öldin skridu ógna fall Enn þá sjer á hverjum degi.

Þvílík kona, þad eg skil, Sem þuldi frædin heilla vana, Hún má vona vístar til Vid seidhlædur Eldhrossgrana.

---

# Áttunda ríma.

Þekkti eg ádur ydar vana, Ísafjordar þjódin kær; Ljódin strádum linna bana Lestrar bordum Háfa nær.

Þegar brædur tóna taka, Sem treysta gæda hljódunum, Þykir mæda minnst ad vaka Mørgum klæda slódunum.

Nokkrir lá þeim ljódin þylja Og lasti slæda um málin fríd, Gagnid þá ei þessir skilja Þad sem kvædin vinna lýd.

Fedra dæmi forn ad skilja Fyrri tída heill og þrá, Skerpir næmi og vekur vilja Verkin fríd ad stunda á.

Ef engin myndum dæmi af daudum, Dofna fyndist hyggjan smá, Værum blindir verri saudum, Vid kvikindin líktumst þá.

Sagna lestur kær þótt kynni Kjørin flestu tída þjóð, Seggir bezt í sansa inni Samin festa rímna ljóð.

Því eg kalla þarflegt vera Þegna hvcim, er mennt til bar, Rímna spjall á bordad bera, Svo betur geymist søgurnar.

Hjer á grundast heidur þjóda Heims um stundir langvinnar. Danir undrast ellifróðar Ísa grundar skræðurnar.

Því ei leyna hlítir heimi, Heidur vorn þad auka kann, Sig hjá einum okkur geymir Edalborna norrænan.

Því má snilli og þarfa kalla Þeirra ljóð, sem kveda vel; Slíka hylli og heidri alla Hyggin þjóð um Klaka=mel.

Hinum spott og hatur sæmir, Er heidur skadar vorum lýd, Og úr hvopti fúlum flæmir Foraktadast klám og níd.

Hans ei anda nemi nokkur Nídid bezt ad kæfa fer, Slíkur fjandans fýlu strokkur Forsmán mest í landi er.

Þessum synda drjúgum dóla, Er druslur mynda skømmum af, Ætti ad binda á bakid fóla, Í botnlaust hrinda gleymsku haf.

Vid þær gærur lukkulausur Líka væri ráda bót, Belg ad færa á bera hausa Og binda snæri um kverka mót.

Vjer forsmáum galda glanna, Gledin hjá oss nærri býr, Ad þylja skrá um søgu sanna Sóma háum fræda týr.

---

Þorsteinn mundi hefndir hræda, Því hrekki bráda kerling ól; Á Gisla fundinn gat ad lædast, Gott þar nádi þiggja skjól.

Sídan hirdir handar jaka Hefnd á medan færi gaf, Í Borgarfirdi far nam taka, Og fluttist hjedan landi af.

Børkur frjetti kynstur kynga Kerlingar og þangad fer, Tekur gretta gridi hringa, Gat hún par ei fordad sjer.

Í Saltnes færir Audbjørg illa Yggur hæru

Friggjar sá, Steinum færist digur dryllа, Dauðans klær svo gista má.

Gísli flýtir ferdum líka, Fjølnis svanna rídur hann, Þorgrím nýtin neista víka Nefstadanna bóndann fann.

Tøfra skrattann hitta heima, Helzt er grøndum valda kann, Kemur flatt ad sendir seima, Sidan høndum tekur þann.

Belg á hausinn binda sóta, Bykkju drógu í Saltnesid, Ærulausum bødli blóta, Byrgist ró um þetta svid.

Kenndi meina, í belgnum beljar Bølfad skeini, og hveljur saup, Lømdu steinum hann til heljar Hlynir fleina í verka kaup.

Svika fjanda sveinar teitir Hjá systur hlid þar byrgja møl, Á Nástranda sultar sveitir Sett þau nidur voru í dvøl.

Þangad vitja þulan skyldi, Þegar hørdum vetri brá, Børkur flytja búid vildi Í Breidafjørdinn sudur þá.

Þorkell fylgja þegni mundi Og Þórdís kvinna Barkar frjáls; Sunnu ylgjar laut ad lundi Lofnin tvinna og byrjar máls:

Gísli hefur ort þann ódinn, Eg sem hneigi rádning frá, Søk má gefa þegni þjódin, Þorgrím vegid hefur sá.

Ljód eg festi og líka rjedi, Ljóst hann eigi málid kvad. Børkur mest í grimmu gedi Gísla segist launa þad.

„Veit þó eigi,“ vaskur tjáði, „Vif hvort segir rjett á skil; Køld eru meyja og konu ráðin, En kvæða eigi man eg til“.

Barkar lundu Þorkell þýður, Á þessu sefa nam um stund; Skaut sjer undan, ákast ríður, Á síns hnefa kemur fund.

Gísla hitti á Hóli, og tjáði: Hefjast sjer eg mála røk; Þórdís kvittinn þróa náði Á þig að bera víga søk“.

„Gleymast listir“, Gísli ræðir, „Grunað síður hefðum vjer, Að vor systir býr í bræði Bana stríð á hendur mjer.

Spyrja nú eg vil í vanda, Viður marar ljóma tjer, Hvernig þú vilt hjá mjer standa“, Honum svara Þorkell fer:

„Eins og nú þig vil eg vara Viti eg skaða nærri stá Æ með trú, en ørløg spara Ætíð, hvað sem verða má.

Minn er góði byrinn bágur, Brjósti mínu ei gleymast kann, Að fóstbróðir minn og mágur Morð af þínum høndum fann.“

„Sízt má undra“, Gísli greinir, „Að gremjast lundin kynni þá, Vestein sundra vann með fleini Vigra lundur fyrri sá.

Þjer ei mundi eg þannig svara Þú ef stæðir vanda í“. Skilja fundinn suna vara Freyrar mæðulega því.

Þorkell nær þar Børkur bíður, Búast ríða

sudur þá, Þórdis mær og meiri lýdur Meidum skida fylgja á.

Barkar fara systur synir, Saka-Steinn og Þóroddur, Þeim med skara þeigi linir Þorgeir einnig austmadur.

Sanda- hríd hjá Ósi æja Alfar treyju jórum þá, Þorkell ridur þar til bæjar, Þursa segist skuld ad ná.

Gódan hest fær garpur hrestur Gríms á kvinnu skjótleikinn, Ridur mest sem má hann vestur, Og mætan finnur bródur sinn.

Bad um stundir, Gísli grundi Ad geyma dád og kænleg rád, Börkur mundi fá hans fundi Og ferdast brádum þar um lád.

Aptur snjeri geira grjerinn, Getur knáum brögnum ná, Börkur fer um Bjarnar verinn Og bragnar fráir Þingnes á.

Gísla býr hann mál á móti Um myrding hlýra þingi á, Þadan snýr med þykkju hóti, Þófa dýrin reyna skjá.

Gísli fleira vann um veldi, Vissi ad ólust kjörin hörd; Þorkel Eiriks syni seldi Sina Hólinn eignar jörd.

Eyk og sleda traustur tekur, Tídum nóg sá rádin ól, Fjárhlut med hann ærinn ekur Ut á skóg og þarna fól.

Med sjer þrælinn þramma lætur Þórd hinn raga dádlausan, Tingla dælu týr ágætur Talid lagar svo vid hann:

Lidsemd kná́a i löngum ferdum Launa á eg fleina grjer, Kápu þá eg hef á herdum Hina bláu gef eg þjer.

Þú skalt prófa hvernig hagar Hún, og setjast sledann i; Á sig bófinn dúk nam draga, Dável ljet hann yfir því.

Þræll ógætinn gjördist kátur, Gæfu og heidur vara sann, Helzt i sæti hreifilátur, En hrysu leida bóndinn vann.

Grýlu bar hann kuflinn kundar Og kollótt der á hjarna skör; Börkur þar ad skógi skundar, Skatna sjer og herti för.

Þórdur hrædist, hljóp af sleda, Hjartad kápan litid jók, J skóginn ædir eitthvad hjedan Undir dráp og flyja tók.

Nú er hempan mest ad meini, Minna hlaupid fær enn vill, Veinar kempan lágt i leyni, Linar raupid hræzla ill.

Þetta Gisla hinir halda, Henda skædar elt-ingar, Honum písla vilja valda, Völlu æda gull-toppar.

Skaut austmadur skörpu spjóti, Skadinn fregnast brádum meir, Hleypur þad ad herda móti Og hjó i gegnum kápu freyr.

J daudans bad svo datt óglađur Drengur mörku skógar á. „Skjóttu madur margblessadur", Mælti Börkur kátur þá.

Þangad snýr nú þjód ósælin, Þarf ad hyggja

um sigurinn, Happid rýrist, þekkja þrælinn Þarna liggja daudskotinn.

Elting stinna einnig gera, Ýta hver var þeygi seinn, Vid þrælinn hinn, sem þenkja vera, Þór-oddur og Saka-Steinn.

Steinn nam spjót i skyndi skaka, Skjóma renndi ad manni sá, Hinn á móti mundi taka, Og midjan sendi Þórodd á.

Blódi spýtir undin ódum, Ondu slitur Kroppi frá, Steinn sjer flýtir, fyrdum hljódum Fognud litinn mundi tjá.

Um skóginn vada af skapi knúdir Skarpir spanga njótarnir, Sjer austmadur limid lúdist, Lensu þangad skjóta fer.

Gegnum kálfann Gísla renndi Geirinn ljóti og særdi hann, Dró út sjálfur hjør med hendi Hann, og skjóta aptur vann.

Á austmanninn mida nádi, Mund ad láni stýrdi dør, Sálast hann, og laut ad ládi, Litid skánar hinna før.

Lengi nádu leitum hrada, En lista fráum hvergi ná: Bædi hrjádir skømm og skada Skridid þá til bæja fá.

Víst er hreysti og hugar rekki Happid bezt ad eiga sjer, Þegar geystir grimmd og hrekki Glæda flestir óvinir.

---

# Níunda ríma.

Þegar manna þanka vilja þrautir þína Sumir hug og höndum týna.

Allar gegnum ædar þeirra óttinn vedur Opt um þad sem aldrei skedur.

Hardast undan hopa þeir med hjartaslætti Ofalli, sem aldrei mætti.

Fælnir tídum firrast þeir med flónsku ljóta Þad sem mida má til bóta.

Nokkrir hyggja ad hægja sínni heilla bögun Emjandi vid kvein og kløgun.

Hverjum manni harma sína hrjádir þylja, Sem hinir fæstir heyra vilja.

Öllu búast illu vid og ærast kvída, Þessir hafa þungt ad lída.

Hinir sem ei hjartad láta hræzlu buga Meingjørdunum móti duga.

Og þótt standi umgyrtir af ossóknonum Sigur hafa væna von um.

Þótt ad kringum þessa nái þrautir gyrda, Láta þeir ei módinn myrda.

Vopnum þó menn veifi ei um vora daga, Margt vill samt til meina draga.

Ovættir sem annars vilja audnu týna, Alla hvessa odda sína.

Fjadrir eru fyrda sverd á flestum þingum Og fylkingar af forordningum.

Þegar kempum þessum slær sem þrumu saman, Mørgum þykir minnka gaman.

Ef ad þessi óskøp vilja á oss leita Fjødrum verdr bezt ad beita.

Hvort nú betur høgum fer, enn hinna fordum Hafa skal eg ekki ad ordum.

Børkur eptir bardagann til bæja sneri, Hugar litid gæzkan grjeri.

Gísli fótar sárid sitt nam sjálfur binda, Heim svo sneri lundur linda.

Ferju mikla fær hann sjer og ferma rjedi Ærnu fje á ála bedi.

Einn hann fer med Audi sína og Gudrídi, Ferju heldur fram á vídi.

Hestinn sjós vid Haganesid hepti strengur, Heim ad bænum Gísli gengur.

Heimamadur heitis spurdi hetju snjalla, Orjett hann sig eitthvad kallar.

Kastar Gísli stórum steini ad stordar bandi Fram í hólma langt frá landi.

Bad hann segja bóndans nid þad bragd ad revna, Hvort hann lengra hendi steina.

Þá mun, kvad hann, þykjast vita þegninn hradur, Hver hjer verid hafi madur.

En þad var á engra færi eptir leika, Til skeidar nam so kappinn kreika.

Inn á rær hann Arnarfjørd og yfir sídan; Litast þar um voginn vídan.

Geirþjófsfjørdur gengur innst af gjálpa tún-um; Þangad rær hann báti búnum.

Býst þar um og byggt ad nýju bæ sjer getur, Náttar þar hinn næsta vetur.

Mága sína mætur bidur málum svara, Og sig, ef mættu, sektum vara.

En þeir sættu um hans mál að øngvu liði, Sekur varð og firrtur friði.

Þorkel auðga þetta biðja þegni kynna; Sizt hann vilja sjálfir finna.

Gísla Þorkell sína sekt nam segja harða, Týrinn svarar japa jarðar.

„Muntu nokkuð vinur vilja verða að liði Mjer, sem nú er firrður friði".

Rafnar báðir nýtan søgðust nokkuð hýsa, En øðrum frá sjer vanda vísa.

Vetur liða þannig þrír að þundur seima Optast var hjá Auði heima.

Að Þorketils Eiríkssonar en hann stundum, Greiða þáði af lausa lundum.

Aðra vetur alla þrjá í ama standi Um fer hann á øllu landi.

Hann nam til við høfðingja þá helztu leita Að þeir lið sjer vildu veita.

Eins var þá og optar skjer á okkar láði, Fáa vini fær hinn smáði.

Það er mælt að Þorgríms seið og þulan kalda Mundi þessu mest um valda.

Af því verður enginn til sem á vill hætta Að leita fyrir sekan sætta.

Hugnast síðan honum nokkuð heima bíða. Fylsni tvø sjer fer að smíða.

Annað hafði ána við þar engva varði, Og eitt í klettum upp frá garði

Arin Gísli svona ser i sektum bidur, Berki þad i brjósti svidur.

Eyjólf grá ad Otrardal i Arnarfirdi Hitti Børkur hugar stirdi.

Skorar hann á gautinn gilda góins fitja Leynt um Gísla lif at sitja.

Hundrud silfurs þádi þrjú og þessu heitir Eyjólfur þeim veiga veitir.

Húskarl var þar Helgi nefndur, hrekki hvatti, Njósnar kænn og skygn sem skratti.

Sjed hann hafa segist mann med svip óglødum Heima opt á Audarstødum.

Eyjólfur þar arkar til med átta slinna, En þeir mannin ekki finna.

Burtu þadan leitar lúnar lyddur sveima, En Gísli var þó geymdur heima.

Allra manna søgn er sú, i sekt hann væri Einna lengst á Ísa-Mæri.

Hann og Grettir hafa lengst á haudri bádir Lifad sókn og sektum þjádir.

Gísli kænn og klókur var, ad kifi hradur, Djúphygginn og drauma madur.

Þá um haustid þessu næst er þad i efni, Ad hann lætur illa i svefni.

Gretis þegar bóla baldur blundi ljetti, Um hans drauma Audur frjetti.

„Drauma konur“, sagdi sendir sunnu lækja, „A eg tvær, sem ad mjer sækja.

Önnur til min vitjar vært med vingan hverri; Hin er øllu hóti verri.

Hún mjer þylur harma spár og hræda fýsir, Henni fylgja dimmar dísir.

Nú mjer þad í blundi barst, mig bar ad húsum, Inn þar gekk eg fótum fúsum.

Frændur mína marga þar eg mátti kenna; Fyrir øllum eldar brenna.

Sumir eldar brunnu bjart hjá brøgnum hljódum, Adrir lifdu á litlum glódum.

Betri drauma bedjan min í bála ranninn, Til min kom, og tjádi þannin:

‚Eldar merkja aldur þinn og einnig hinna, Minum rádum máttu sinna.

Gleymast láttu galdra trú og goda frædi, Aumum veittu gagn og gædi'.

Vid þad minum blundi brá", tjer baldur skida, Og vísur kvad um vitran frida.

Eyjólfur kom annad sinn til Audar ranna, Fjórir tugir fylgdu manna.

Ytar leita um innin flest og alla skóga, Mædu hafa meir enn nóga.

Eyfi býdur ærid fje, ef Audur segi, Hvar þeir Gísla hitta megi.

Ad ødrum kosti illir hóta Audi ad meida, Nema þenna gjøri greida.

„Hverju sem ad hótid þjer", nam hún ad svara, „Gísla skal eg verja og vara".

Snúa þeir frá snótu næsta sneypulegir, Ganga heim sem vísa vegir.

Gísli sjer ad varla vill þar veran hlíta, Heiman snjeri rjódur ríta.

Finnur Þorkel frænda sinn og fór ad leita Ásjá hverja vilji veita.

Hann kvadst mundu honum fá til harma bóta Silfur, føng og fararskjóta.

Vista hjá sjer vill þó ekki vænan hlýra, Ef þad kynni illu ad stýra.

Gísli þádi greidann hinn af garpsins hendi, Þadan svo ad Vadli vendi.

Þorgerdur hjet bauga byggd sú bænum rjedi, Gísla vetrar víst hún ljedi.

Haldin var þar høfdinglega hetja vitur, Í jardhúsi einu situr.

Vetur leid, en varma gefur vorid heita, Vill þá Gísli vistum breyta.

Audi lengur ekki hjá hann unir vera, Heim sig lætur hrysøu bera.

Fram ad hausti heima var med hildi sauma; Aptur sær nú illa drauma.

Drauma konan verri vildi volgu blódi Dreifa á hann í dúra hljódi.

Dárlegt er ad drýgja trú á drauma glettum, Ber þó til þeir bendi ad frjettum.



# Tíunda ríma.

Vaknar ár við saunginn sinn, Sofa skár ei mátti, Fjaðra sári fuglinn minn, Forni Hár sem átti.

Þó veðrin sálu verði hørð, Vísna brjál eg stæri Og Hafla skála hurðar jørð Hátta málin færi.

Fram vjer drøgum dimmu frá Djarft í brøgum kláru, Fornar søgur fíra þá Fremst á døgum váru.

Hylli ljóðin hærður týr Huglar glóða tauma, Dylli hljóða veikur vír Vita tróðum strauma.

Oðar spjøllin, er eg kveð Undir fjøllin taki, Drýgi trøllin dansinn með, Dofra høllin braki!

Søngva fræði um feðra dáð Framt eg ræð að smíða, Ut um flæði Ísa láð Okkar kvæðin víða.

Fjølnir leiði er fræða gjørð Fornri eyðir víða, Fer á skeiði um fanna jørð Fús að meiða og níða.

Bólginn lýir barka sinn, Buldrið drýgir slettum, Til vor spýju ælir inn Af þeim nýju rjettum.

Fósturjarðar frama hann Fýsist skarða illa, En með farða útlendan Eyju Garðars fylla.

Kvæðum fróðum lands um lóð Lengi þjóðir safni, En lasta bjóður fram á flóð Fjúki í Oðins nafni!

Hátta søngur hægi þjer Hugs í gøngum skíru, Storðar løngu ljóma ver, Laginn føngum rýru.

---

Sumars blíðan svo út rann Sendir fríðum skála, Drauma gríður verri vann Værðar tíðum brjála.

Heiman ferð um haustið bjó Hroptur erðis Grana Að Þorgerðar enn í ró Orma verður bana.

Síðan heima að sumri er, Súta keiminn metur; Aptur dreyma illa fer Að þá sveimar vetur.

Þorkel bróður finna fer, Fær so hljóður ræða: „Liðsemd bjóða muntu mjer, Mein ógóð nú hræða.

Eg skal síðar ei á þjer Optar níðast bóna Nú með prýði lið ef ljer Lundur víðis óna."

Hinn kvazt skyldi hest og knør Hlýra gildum lána Hvert sem vildi flýta før Flóa hildir mána.

Með sjer vera meinar hann Mætum grjeri fleina, Undan skerast einatt vann Annan gera beina.

Gísli þáði hlýra hjá Hjørtinn láða geima, Ferju náðu flóðið á Frændur báðir teyma.

Þorkell fæðu føng til bar Freyri svæðis hanga Og tíræðan álna þar Einn til klæða stranga.

Gísli á flóðið þokar þá Þorkell stóð á landi; Nú við bróður sagði sá, Sinnu móð berandi:

„Veit eg kæri þykist þú Þøkkum værum stýra Og liðsem ærið nóga nú Neyddum færa hlýra.

Gæfu kallar mestan mun Milli falla beggja, Að þjer valla gefur grun Grímur snjallra eggja.

Vinir stoða og virðing þig, Vatna roða þakinn, En í voða einan mig Útlegð skoðar hrakinn.

Eitt eg segja þó vil þjer, Þú sem ei fær spáð um, Að þú veginn undan mjer Átt að deyja bráðum.

Skulum kaldri skiljast ást, Skøpin valda

norna, Hjedan af aldrei optar sjást Elda baldrar Forna".

Þorkell tjáir, „það mjer lízt Þú í frá oss snúir, Hvað þú spáir hirdi eg sízt, Hvergi á það trúi".

Gísli rjeri í þægum þey Þjóttu beran linda, Húna meri í Hergils ey Hetjan gerir binda.

Lødurs klár þá lenda rjeð Leystur sári rastar, Piljum, árum þóptum með Þegn í bárur kastar.

Hundi banda hvelfa vann Hristir randa frekur; Undan landi askinn þann Olgan stranda tekur.

Ferjan smá á fasta land Fleytast náir þaðan; Høldar fráan hringa brand Halda sjádrukknaðan.

Því menn kenna Þorkels far Þar sem fennur brúsa: Gísli enn í eynni var Upp til rennur húsa.

Hjet Ingjaldur hrani stáls Húsa vald sem átti, Gísla taldist frændi frjáls Fleina baldur sátti.

Varna sá vill vinar nauð Verinn frái skíða; Gísla hjá sjer búa bauð, Bætir þrá og kvíða.

Feginn verður frægðar mann Fyrnist mergðin skaða; Hjet Þorgerður húsfreyjan Hirdis sverða blaða.

Ástar hótin blíðu bjó Bendir klóta svanni, Átti ljótan arfa þó Agæt snót með manni.

Spillir gerða Helgi hjezt, Happa skerður

stóli, Fífl sem verda mátti mest, Mannógerd og dóli.

Hlekki og stein á hálsi bar, Hann því sveina bagar, Stráin einatt ærdr þar A sáðreinum nagar.

Afgløp baldinn æfdi flest, Umgjørd faldist vallar, Fólkid aldar flónid verst Fífl Ingjaldar kallar.

Hærri trøllum hrikinn var, Med hljóda skøll óvitur. Gísli af øllum íþrótt bar, Ad Ingjalds høll nú situr.

Skipa smídi þjónar þar Pundur vidis roda, Afbragds prýdi á því var, Undrar lýdi ad skoda.

Vors med hita heim rjed sá Halda bitil tauma, Æ nam sitja á sumrum hjá Sólund vita strauma.

Ást margfaldar Audur þar, Amar kaldir gróa, Med Ingjaldi á vetrum var Vita baldur flóa.

Árin lída þannig þrjú, Þótti tídin betri, En fridar blída sólin sú Ad sorga lidur vetri.

Undrast lýdir opt ad sjá Ingjalds fridu kneri, Þrjú nýsmidud því nú á Póptu skíd á veri.

Ad Gísla mida gáturnar, Ad gjøri í fridi hjara; Enginn smidur ædri var Einn á svidi skara.

Til eru dregin dæmi flest, Ad drukkna eigi nædi, Nú því fleyin byggi bezt Og búi á eyjar svædi.

Eyjólfs gráa eyrum þad Illa náir svida; Helgi má því halda á stad, Ad háttum gái lýda.

Njósna kann um nadda frey, Nødru glanni heida, Kemur hann í Hergilsey Um hýsing vann ad beida.

Gestinn hyllir hinn ad sjer, Sem hans var snilli vandi, Ad morgni illan frjetta fer, Ef flytj-ast vill ad landi.

Helgi greinir: „minnst eg má Í mínar skeinast slíkur, Sóttarmeinin hættu hrjá"; Og hausabeinin strýkur.

Stynur bædi og hljódar hátt, Heptir mædan þroska; Rær á grædi bóndinn brátt, Býst ad slæda þorska.

Jardhús gildur Gísli á, Gest ei vildi finna; Fædu snilldarfúsum þá Færdi hildur tvinna.

Bóli hreykist Helgi frá Um húsin smeikur skimar; Í jardar kreika salinn sá Sólund kveikja Vimar.

Skilja þetta vondur vann, Vasinn pretta skýlu. Hrikann frjetti húsfreyjan, Hví hann spretti úr hvílu.

Kaudinn rædir: „má eg minn Megnan hrædast bana, Komid ædi á mig finn, Eirda og nædis vana.

Hjálp mjer ljái mærin mjó, Ad mjakast nái ad fleti Hugar þá svo þiggi fró, Þar ad dáid geti"

Þessa vinnu vísid dátt Veita linna mundi; Hljódin linna smátt og smátt, Smánin finnir blundi.

Bóndinn heim þá húmad var Hjørtinn geima

setti, Svika beim um sóttar far Sitt ógleyminn frjetti.

Helgi tjádi: hægist mjer, Heilsu dádum mæti; Far sem brádast sá af þjer Feginn þád eg gæti.

Veitti blíður bóndinn far Blindi vídis kjóla; I hafnir frídu Flateyjar Flutti sídan dóla.

Padan slarkar þá um fjørd Porska markar breida, Kom á Barkar bónda jørd Blindur jarka heida.

Sinum skvaldrar ferdum frá Fofnis tjalda þundi, Ad Gísli halda hæli þá Hjá Ingjaldi mundi.

Fyllist brædi Børkur enn Og bjóst ad grædi stikla, Fær hinn skædi fimmtán menn Og ferju ædi mikla:

Hringa meidar herda bønd, Huglar freydir gjørdin; Brádum skeidar øldu ønd Yfir Breida-fjørdinn.

Geira baldur Gísli þá Grunnungs tjalda meri Med Ingjaldi marar á Markir kaldar rjeri.

A odrum báti Ingjalds þjón Og ambátt sátu ad veidi Vid skutuls látur happa hjón, Hefring kát þó freydi.

Sjer Ingjaldur sels af flór Sidum faldi medur Húsa mjaldurs hjeri stór Hrannir kaldar vedur.

Kenna bráda Varkar før Byrs i grádi dragna; Nú til ráda hyggur hvor. Hamingjan nádi bragna.



# Ellefta ríma.

Ljetta fljetta háttu hjer, Hagar søgu flagi, Idinn vid þad eiri mjer, Opt þó týni lagi.

Heidri eida munu mjer, Um mærdar gjørd ef þinga, Og skrána fúna skoda hjer Skáldin Nordlendinga.

Sjái þá mín stirdu stef Støngull skálda þinna, Fitjar viturt Níels nef, Nídill kvæda minna.

Fast hann lastar ljóda søng Líkt og soltinn hundur, Dregur vígatanna tøng Tóna smídin sundur.

Hans af Franzi løgud ljód Lengd med dønsku skotum Ein hann meinar þjeni þjód Þvingud heila brotum.

Hann þá spannar Hropta kút Og þinna tínir feilin, Drjúgum vegur ødrum út, Þótt allur villist heilinn.

Hann nær annar rímna rún Rjett af fremstu getum Kúgar drjúgum tóna tún Tíu ár á setum.

Því skal spýju hans og hád Hjartad fyrirlíta, Fundin mundi eg fá til ráð, Fari hann meir ad bíta.

Bid eg idu vita ver, Sem vill mín kvædi hirda, Sladur hvad sem ómætt er Einskis hans ad virda.

Hveim er geyma minning má Mærra fedra sinna, Nægdir frægda flytji frá Fósturjardarinnar.

---

Dregur veg um brimla bú Barkar skeid ór-rýra. „Gádu ráda gódra nú", Gísli tjer vid hlýra.

Skjótt án ótta Ingjaldur Anzar, „ráð skal hneigja, Ródur ódast herdi hvur Hergilsar til eyjar.

Stødu hrødum frændur fá Á Fálkasteina bergi, Verjast gerum þadan þá Þeirra sóknar ergi.

Medan ljed oss lífid er Látum skiljast eigi Þreytum heitu vopnin vjer, Svo virdar af ferd-um segi".

Tjádi gádur Gisli þá, „Gátu sanna eg mína, Flest sem bezt ad madur má Mjer þú vildir sýna.

Drengskap lengi þenna þinn Þjódir skyldu muna, En rád eg brádum frægra finn Frændum vid ad una.

Illa snilli þína þá Þykist heldur gjalda, Daudans neyd ef olla á Alfi hildar tjalda.

Sækjum sprækir eyju á, Ei þad rád fer midur; Klædum ræd eg þrælinn þá Þinn ad skipta vidur.

Þú skalt nú med honum hátt A Haukabergi vera Má eg þá og þín ambátt Þóptu taka hjera.

Halda skjalda hlynir mig Hjá þjer standa á bergi, En sídur strída þá vid þig, Þegar eg er hvergi".

Rádin hádu þessi þar Þegnar flýti medur, Fer á meri marvallar Mær og Gisli sjedur.

Fljódid rjódan vidur vann Verinn spurning laga: „Hvert skal burt um hnísu rann Hrafninn stafna draga?"

Svar fram bar vid svinna snót Sendir handar snjóa: „Berki herkin beint á mót Bátnum skulum róa.

Þú skalt brúar blóma sól Brodda segja grjeri, Ad Ingjalds hingad fífl og fól Flytjir þú á kneri.

Nær oss rær hinn hrausti hjá, Hef eg annan máta, I stafni hrafni ára á Eins og fíflid láta.

Hradi vad til veida snót, Vil eg þá í fáti Ærast nær med lætin ljót Lemja á sjó og báti."

Nær so mærin móti þeim Mest er treysti á burdi, Børkur markar rødla reim Ránar þannig spurdi:

„Er ei grjerinn geira sá Gísli med Ingjaldi?“ Svanninn vann ad svara þá, Satt hún þetta haldi.

„Núna rónir eyju ad Eru týrar glóa“. Børkur sterkur bad í hrad Bragna þangad róa.

Stansa glansa freyrar flóds Fíflid á horfandi, Svari fara svo án móds Svanna til, spyrjandi:

„Er ei þjer sú þrautin mest Prúdur glæda flóa Hamadan teyma glæpa gest Glamma fram á móa?“

„Getid metid þetta þjer“ Þá hún brá til svara, „Líkning sýnid litla mjer Þó látid hlátur vara“.

Børkur hørku bidur med Bragna rædin spenna, Til eyjar ná svo øldin rjed, Ingjald drengir kenna.

Þræl ófælinn þjódin sjed Þar og fær á bergi; Brædi rædir Børkur med Bóndans til af ergi.

„Mannhund kann eg mestan þig, Minn því bródur fjandi Felur heljar sekur sig Svona í þínu landi.

Fram nú skamma fólid sel Fúli dóla maki, Annars kann því hætt ad hel Um hálsinn á þjer taki“.

Eyjar segir bóndinn brátt, Á bjargi þorgar

stendur, „Sizt mjer lizt þann sinna dátt Ad selja í þínar hendur.

Fata slitrin missa má Min og deyja þann-inn, En aldrei skjalda freyr skalt fá Fundid snilldar manninn".

Vin í raun med snjalla snill Snotrir meti drengir, Sem lifi hlífa varla vill Vodinn ad ef þrengir.

Núna vænu vinirnir Vel þá manni gengur Hjá oss dável sóma sjer, Svo er það ekki lengur.

Gódan bródur Gísli fann, Sem gledi ljedi huga, Bezt af flestum hefur hann Hrjádum nád ad duga.

Sumra guma sú er spá, Þá seiddi tøfra ginid, Ad blótid ljóta eyjum á Ekki muni hrinid.

Børkur sterkur Ingjald á Ekki vill þó leita. Menn so kanna húsin há Og haudurs breida reita.

Í girding virdar fundid fá Fíflid tjódrad steini; Sveinum núna' í brúnir brá. Børkur þetta greinir:

„Margir ørgu fífli frá Firrna søgur gera, En nú kenna menn það má Marglátt nokkud vera.

Hefur án efa heimska mest Høppum tálmad vorum; Get eg sitja á grædis hest Gísla í fíflsins sporum.

Mundar lundur man eg er Mesta hermi-kráka; Skunda ad stundu verdum vjer, Vadal fram á snáka".

Hafnar ofna hlynir þá Halda inn á flóa, Flóða gjóður Gísla sjá Og gríðarlega róa.

Að landi gandi gjálpar snar Gísli kom hinn mæri, Róðrar óðir eru þar Í orskots hinir færi.

Hring af fingri Gísli gaf Gríðku og beiddi fara; Nær so mær á keilu kaf Kófuð orðin bara.

Á landið skundar svo ósein Sjerhver ör á fótum; Saka-vakur steðjar -steinn Strax að hamra mótum.

Geira freyri, er geisar að Gísli fyrir stendur; Skjótt án ótta eggjað blað Elldar reiða hendur.

Klauf þá laufinn haus á hal Og herðum sundur sletti, Datt sá hratt, en hrafninn skal Að heitum leita rjetti.

Síðan friður sundið á Súrs nam hlaupa arfi. Börkur hörku hetju sá, Hneiti skaut hinn djarfi.

Spjót að klóti Kálfann þá Kempu gegnum smýgur; Sárið stóra mæða má, Miður gjörðist vigur.

Á sundi mundi sjálfur þó Úr sári geirinn draga, Missti lista sverð í sjó Sitt við hjettan baga.

Mæðin skæða neyðir nú, Nóttin datt á víði; Að handri skreiðist hetjan trú, Hætt þó undin sviði.

Enga drengur verju vann Í vala hólum bera, Með flæðar læðist fari hann, Forðast sverða vera.

Leiti þreyta hinir hjer, Hann á undan setur; Ad Haugum bauga bragi fer, Bónda þar er setur.

Refur hefur húsa ráð, Haldinn kænn og slægur, Veita heitir bjorg i bráð, Bað so kappinn frægur.

Frjettir rjettar fram hann kvað, Fremur svörin gefur: „Þungum göngum þokar að"; Þá tjer aptur Refur:

„Vittu hitt hinn særði sveinn, Sje þjer leitað náða, Vil og skal eg öllum einn Okkar háttum ráða.

Veit eg leita hingað bratt Hinir sjer til bráða"; Týrinn skýra geira glatt Gísli bað að ráða.

Refur hefur húsfrú sjer, Heitir Alfdís flenna, Gapa skap i skinni ber, Skratti allra kvenna.

Veit eg beitir baugs vid sprund Búnast dável hefur, Vargur argur helzt var brund, En hann var sannur refur.

I húsin fús með Gísla gekk Gautur orma sitja, I hvílu grýlan þeygi þekk Parna náði sitja.

Refur hefur svoddan svör Við sína prjóna nipti, „I nótt þjer fljótt með kosta kjör Karlmanns ljæ eg skipti".

Fussar trassalegast lif Og lotin gýtur sjón-um, I sinni innra sýður kif; Svei þeim báðum hjónum.

Hvetur súta og firrna fjöld Fljóðið geðjað svona. Betri er hnúta hörð og köld Enn hunda-lunduð kona.

Hræring særa hverja fer Hvidur vid þó naudi, Þær oss æra og eru hjer Idinn fridar daudi.

---

# Tólfta ríma.

Á eg ad vogast enn til þess Upp ad toga úr kverkum vess, Eda leka láta um sinn Ljóda blek á pappírinn.

Herjans ragur hrafninn minn Hnípinn nagar vænginn sinn, Sitt hann feldi fjadra blóm, Førla heldur tekur róm.

Fyrri bar hann fegri hljód, Frægdar snara kætti þjód, Ymsum háttum hrærdi med Hinna sáttu vina ged.

Á þeim tídum opt hann gól Ástar blídu og kvenna hól, Margra sálir vekja vann Vid ad mála guddóm þann.

Á þeim tídum orti hann Od um vídis glófarann, Þars á øldum rumdi røng, Ráa nøldur, kadla søng.

Hljódin lifna ljet hann á Løndum drifnum blódi þá, Sverds í gøllum sárheitum Søng med øllum Valkyrjum.

Svo nam treinast søngva dans, Samt var einatt vandi hans Fyrst og sidast Rósu rós Ránar frídu ad kjósa hrós.

Finn eg núna ad fuglinn sá Fjadrir rúnar syrgja má; Hreidri þrøngvu hímir í, Happa søngum týnir því.

Margar slást ad meingjørdir, Minnka ástar vinirnir, Þad sem hjartad nagar næst Nú um kvarta tjáir fæst.

Flest vill sækja einum ad, Er ad flækjast leitt vid þad, Vid mig loda langvinir, Laga frodu strokkarnir.

Einatt hjer þó yrki strá Annars vera hugar má, Rædi sjaldan er hann í, Illar valda dísir því.

Þó skal reyna þungt med lag Þessum steina ad lokum brag, Þeim til handa, er hródurinn Hvatti ad vanda um nafna sinn.

---

Skipti manna baud í ból Bóndinn þrannar ljóma sól, Öllum klædum sleti frá Fyrst hann rædur kasta þá.

Gísla hálminn audan á Yggur skálma lagdi þá, Sídan klædi og sængum hann Særdan slædir yfir mann.

Ofan á þetta allt saman Ut af slettist hús-freyjan; Ljótu sprundi lag er á, Liggja undir Gísli má.

Flokkinn kvenna eg beztan bid J brjósti ad kenna um mannvalid. Refur þá vid ristil tjer: „Rád nú má eg leggja þjer.

Ef hingad ǽda illmennin, Opnadu bædi munnvikin, Ældu flestum ordum þá Eins og bezt þjer takast má.

Hádung alla, hark og blót Hátt skalt kalla þeim á mót, Þetta sinn, ef svalar þjer, Seinna kynnir hlífa mjer".

Um þær stundir átta manns Jnn af skunda dyrum ranns. Refur leitar frjetta frí, Fyrdar beita svari því:

„Vondt er okkar vega skil, Veiztu nokkud Gísla til, Bælist ei í bænum sá?" Bóndinn segir: „langt er frá.

Feginn vildi eg vísa á þann Vonzku trylldan glæpa mann; Hans og Barkar hylli ad ná Helzt ad marki skilur á.

Lízt mjer grant ad leitid hjer, Løngum vant

ad geta er, Fyrir víst so vitid þjer Vondur sízt sje falinn hjer".

Harkid kerling heyrir þá, Hún vid gellur innar frá: „Hver med leidan gauragang Gamla neydir mig úr sang?"

Fæst ágæti funnid hjer Fjandans næturglóp-arnir, Svo skal dreypa ydur á, Eina sneipu skul-ud fá".

Refur bidur hringa hrund Ad halda frid um litla stund; Kerling æríst æ þvi meir, Öngvir nær so voga þeir.

Ókøp hennar øll og bann Enginn penni mála kann Gizka stóru ordin á Einhver hóran gamla má.

Eins og hundar húdflengdir Hjedan skunda piltarnir; Um leitir ordid litid var, Lengur þordu ei dvelja par.

Burt med heipt og harmi þá Halda sneiptur Børkur má; Keypti flón i ferda laun Frænda tjón og hugar raun.

Gísli heim i Geirþjófsfjørd Gekk og seima finnur jørd; Audur bjarta ástum med Af ollu hjarta fagna rjed.

Ástin blida og mjúka má Mest nær lida stundir frá Vid fundinn aptur huggast hlý, Huldir kraptar valda þvi.

Þorskafjardar þingsins til Þegnar hardir vors um bil Eptir vanda víkja þá, Vida landi koma frá.

Gest af Raudasandi sá, Sveit ótrauda þingi á, Súrs var kundur Þorkell þá Þessum fundi og Børkur á.

Sagan greinir Gesti hjá Gønguſveinar voru þá Tveir, sem enginn þekkti þar, Þessir gengu um búdirnar.

Þar sem lenda Þorkell ſer Þangad vendu ſveinarnir; Bragnar ſlytja føng af ſkeid, J fjøru ſitur hann og beid.

J feldi gráum gildur var, Gulldálk ſjá menn ofinn þar, Girzkan hatt á høfdi bar, Hvessing batt vid mjadma ſar.

Eldri ſegir ſveinninn þá: „Satt er, þeygi líta má Á fundi ýta frægdar mann Fegri líta enn kappa þann.

Heitid", kvad hann, „herma mjer Høfdings madur virdiſt þjer"; Þorkell tjáir þad, og kvad: „Þjer ſer dável ſvorum ad".

„Sverd hid bezta", ſveinninn tjer, „Seima leſtir verit eg ber, Mantu leyfa mjer ad ſjá?" Máli hreiſir bóndinn þá:

„Skynja eg þú ert um ſinn Undarlega for-vitinn; Gera þetta þó eg verd"; Því næſt rjetti drengnum ſverd.

Sveinn úr bali brandinn dró, Bóndinn talar aptur þó: „Lofad eigi læt eg þjer Ad lauſa megir bregda hjer".

Svorum hreiſir ſveinninn vid: „Sizt um

leyfid þad eg bid"; Hrottann reidir hálsinn á, Hausinn sneidir bolnum frá.

Sverdi fleygir sveinninn þá, Sínum eigin staf rjed ná, Í mannþrøngina midja rann, Minnst so hinir kenna þann.

Þorkell dáinn þarna lá, Þegna knáa furdar á, Ad þeim gá, er geiri brá; Gísla spá svo rætast má.

Þrætast menn, hver vígid vann, Virdar kenna øngvir þann; Annar svarar sveinninn þá, Sem þar snarast gengur hjá:

„Um þad þrætum ekki vjer, Hvort átt hafi dætur Vésteinn sjer, Eda syni, ádur hann Af illmenninu dauda fann".

Skunda sídan skóginn á Skara lýda brædur frá; Svo til fjalla fimlegir Forda allra greipum sjer.

Vésteinn, sáttar segir skrá, Sonu átta hafdi þá, Bergur hjetu og Helgi þeir, Hefnda ljetu rodinn geir.

Gestur spaki, greint er frá, Góma klaka týra þá, Med sjer flutti, og meint er þad Málum stutt hann hafi ad.

Børkur vildi vígsmálid Vekja skyldi og týna frid, Sá því sjaldan eirdum ann, En af því taldi Gestur hann.

Bádir sveinar fridinn fá, Fjøllum reyna gøngu á, Sultar meinin særa þá, Sjer ei neinar bjargir fá.

Dægur tíu harma hörd Um hlamma stíu ferd var gjörd, Göngu drýgja um grjót og svörd, Geirþjófs- í þeir koma -fjörd.

Audi finna sína senn Systur vinna ferdamenn. Gísli stinnur er þar enn, Ei þó finna kunni menn.

Ut til drengja um þad bil Audur lengir spora skil; Puldu engja orma bil Allt sem gengid hafdi til.

Vid þá konan sagdi svinn: „Sizt er von um beinleik minn, Í bágindonum burt um sinn Til Bjartmars sona í Mosdalinn:

Bregdid þid med bod frá mjer, Brædrum snidugt tidum fer, Hjá Gísla midur gedjast mjer Gisting ydur bjóda hjer".

Rifligt nesti skjód rjed fá Frændum bezt sem haga má; Sig þeir hresstu heldur þá Og hringa lest svo kvedju tjá.

Audur þekka inn rjed gá, Upp í rekkju Gísli lá, Grettirs stekkjar góda ná Greina fjekk vid bóndann þá:

„Vid mig eina, er unni þjer, Eg vil reyna hversu fer, Sæmd ad hreina sýnir mjer". Sendir fleina aptur tjer:

„Þú munt skjódid þylja mjer, Ad Þorkell bródir veginn er"; Játa tródan tvinna fer Tryggda góð, og svörin ber:

„Mína brædur hef eg hjer, Hárs er klæda

felldu grjer, Leita nædis þeir með þjer, Pungar hrædast offsóknir".

Gísli ódast fleti frá Á fætur stód og mælti þá: „Mína bródurbana ad sjá Blinds um fljód ei standast má."

Ormi hildar beittum brá, Úr bænum vildi ad finna þá. Audur milda mælti þá: „Ad máli skyldir betur gá.

Burt þeir vendu veginn hinn, Vel eg kenndi offsa þinn, Þá ei senda eg þannig vinn Í þínar hendur, Gísli minn."

„Svo fór betur", sagdi hann þá, „Ad sjá mig ljetir ekki þá". Öllum betjan ama brá, Audi setid getur hjá.

Tíminn ódum eydast vann, Sem á kvad góda draumkonan, Samt með fljódi í sínum rann, Seima bjódur nædi fann.

Draumar spilla fridi fá, Fleiri brylla vid þeim má, Konan illa optast þá Æsir villubrogdin grá.

Þó ad vetrar þrotum nær Þess eg get hann átti tvær; Konan betri í blundi vær Birtast ljet sig honum kær.

Hún á gráum gyllir er, Gísla á hún kalla fer Framast þá ad fylgja sjer, Funa áar hlýdir grjer.

Brautin há ad húsi bar, Sem höll ad sjá það mikil var, Ljómi frábær fegurdar Fyrir brá þar alstadar.

Svæflum búin sætin flest Sínum nú hún býdur gjest Þegar rúinn þraut er mest Þangad snúa og una bezt.

Hefur snótin hýrlegt svar: „Hjer skalt njóta farsældar Lífs nær þrjóta þreyngingar, Þjer til bóta og huggunar".

Kempan glada vakna vann, Vísur kvad um draum þennan; Samt er skadi ad söngin þann A sögu bladi eg ekki fann.

Hvad sem ræktast hjer af kann Hvern því læt eg ráda mann, Sem huldrar þræta veru vann Víst ógætinn þó er hann.

---

# Þrettánda ríma.

Vjer ef ljóda lengjum hljód, Lídur brátt á sögu þátt, Svinnri þjód um svella lód Söngva sláttur falli dátt.

Mærdar lag ef mætti í dag Mána hvera falla ver Kolbeins brag eg kved í dag Kunnur hjer sem vída er.

Eg hefi lengi ljóda streng Leikid á med hljódin smá, Borid mengi bragar feng, Bauga gná þess minnast á.

Ekki stór eg yrkja fór Olvers ljód med barna hljód Panka sljór og máttar mjór, Má nú bjóda vid þeim ód.

Hrappi frá eg þrætti þá Og þengli Persa Cýró vers, Lítid á þeim lagid sá, Þó ljóda messa gengi hress.

Kvad eg brátt ym Hálfdan hátt, Hefnir tjáist Barkar sá; Hjer næst knátti Hemings þátt Hafa þá í nýja skrá.

Um Þórdar hrædu frægd og fæd Falda gná eg þuldi skrá; Sörla kvædi svo eg ræd Seinna þá rjed henni fá.

Um sóknar hljóð við Svoldar lóð Söngva greiður þáttur leið; Fánýt ljóð svo færði þjóð Um Fertrams neyð og trölla seið.

Jómsvíkinga járna þing Jeg þá söng og vopna þröng; Tistrans slynga ræðan ring Rann svo löng um þanka göng.

Grænlands háu hnúkum á Heldur þegja tókst mjer ei, Núma skrá eg þuldi þá Pistils eyjar jarka frey.

Þessu næst um ókjör æst Aristomenis ljóðin kljen Söng eg dæstur frár um fæst Fingra menja týri sjen.

Gunnars hátt svo hóf eg brátt, Við Hlíðarenda sú er kennd Hetjan þrátt sem hafði mátt Að höggva fjendur sjer í grennd.

Emilíu eg orti á ný Æfisar og raunirnar; Næsta því eg fræddi frí Um Fribrik þar sem kona var.

Um Pjetur snaran bögur bar, Þótt bragar föng ei yrði löng; Um vinskap raran Valvesar Vísur söng eg klæða spöng.

Tuttugu má hjer flokka sá, Og fertugan nú kalla mann, Helzt er dável haldið á, Hvað sem anna fremur kann.

Líka kann að mæðast mann Þá marga þætti hefur þvætt, Þó eg anna í þagnar raun Ef þessum hætti fengi bætt.

---

Unna skal frá Otrardal, Eyjólf grái Helga þá Til nam fala að fara úr sal Og frekast sjá hvað njósna má.

Hávard mann eg kalla kann, Kominn þar til húsa var, Sels af ranni hafði hann Hafnað þar við eyrarnar.

Helga með sá halda rjeð Um hnýðings jörð í Geirþjófsfjörð, Um skóga beð þeir brjóta treð, En brugga vörð og njósnar gjörð.

Sjá þeir elda síð um kveld Sunnan á við

kleifar þá, Ljósa keldu fróns um feld Freyrar knáir ráda gá.

Helgi tjer: „í huga mjer Helzt eg lada rádid þad, Mid oss gera viljum vjer Og vørdu hlada í þessum stad.

Bidur Hávard hann um sjá, Því Helgi snar til njósna var, Vørdu háa hlada þá, Hana bar vid kleifarnar.

Seigist Hávard høfga þá Heldur dáan þurfa ad fá; Hjer vid tjáir Helgi já, Hann vid stjáid ljúka má.

Vaknar hinn og sagdi um sinn: „Seggur trúr nú sá þjer dúr". Þetta slinni þrælborinn Þiggur súr um hyggju búr.

Hreystin varir Hávardar, Hvergi spillir gódri snill; Vørdu snar hann burt þá bar, Brøgdin ill ei sæma vill.

Steini þá sem stærstum má Steypir nidur á bjarnar svid, Hlumdi sá vid hellur blá Helga vidur svardar mid.

Hann þá stundu hrøkk af blund, Happa brjótur slapp á fót; „Hvada undur hrista grund"? Hefur sóti ordin skjót.

Hinn kvad ljótt er hjer í nótt, Hendast bjørgin á oss mørg. Hvatti óttinn Helga þrótt, Honum fjørgast beinin ørg.

Helgi tjer: „oss hrødum vjer Hjedan frá til strandar ná, Gísli hjer í grenndum er, Grjótid á oss keyrir sá".

Tala þordi ekkert orð, Ofan að skeið svo þræðir leið; Þeir af stordi stigu á borð, Um strauma heið er ferðin greið.

Komast heim af Huglar reim; Helgi kvað: „nú veit eg það Hvar sig geymir baldinn beim, Bezt er að menn fari á stað“.

Eysi grái brátt við brá, Bragna rjeði tólf með sjer, Helga þó og Hávarð sá Heimti sjeður þangs á beð.

Höldar fara Hljes á mar, Hinum knáir firði ná; Leitað var til þrautar þar, Þegnar fá um skóginn stjá.

Engin þar nú varðan var, Virða þreytir svoddan leit: Heyrist svarið Hávarðar: „Helzt eg breytið þetta veit.

Gísli snar mun vorðinn var Vorðunnar, sem hlóðum þar, Og henni snarað happa spar Hjer og þar um lautirnar“.

Eyjólf stansa orðin hans, En samt trúir þessu nú; Þannig anzar ulli brands: „Illa búin ferð var sú.

Ekki tjáir oss það stjá, Aptur verðum snúa ferð; Auði má þó áður sjá Ýta mergðin sæmda verð“.

Svannann finna og fara inn, Foringinn tjer þá brúði sjer: „Við þig, kvinna, kaupskapinn Kjósum vjer að eiga hjer.

Grein oss frá hvar Gísla má Gildan finna

bónda þinn, Silfurs þrjá skalt sjóði fá, Sizt eru minni tilboðin.

Betri mann, enn bósa þann Býð eg þjer ef hlýðir mjer, Lukku sanna laus við bann Lósa frera jørðin sjer.

Neyð er það í þessum stað Þú ert ein og liður mein, Gísli skaða einum að Arma steina leiðir rein".

„Bregðast má", nam brúður tjá, „Að betri annan fáir mann, Kaupum fláum flasa á Frekt eg kann við gjørning þann.

Mæla flestir sje sje bezt Feigum hjá í tíma ná; Hvað sem tjest og til leiðist Tjarnar má eg ljósin sjá.

Gjaldið má eg góða sjá Gilt hvort er sem mælið þjer"; Í kjøltu þá á klæða gná Korða verinn sjóði ber.

Fjallar svanni um fjárhlut þann Fingra milli þá sem vill; Tjáir hann, og telja vann Tryggða spillir málin ill.

Goðariður góð og blíð Gísla þá er fóstra hjá, Þetta svíður hadda hlíð, Heitum sáir tár-um brá.

Gengur sprund á Gísla fund, Grátin er og þetta tjer: „Líður stund að bana blund Bráðum þjer sem miður fer.

Vitlaus orðin, versta morð Veitir Auður þjer í nauð"; Dreka storðar álfur orð Ekki trauður sprundi bauð:

„Hafðu glaðan hug um það, Hún ei fer að bregðast mjer, Bana laðar annað að Eitthvað ger, það sönnum vjer“.

Mærinn gekk frá mætum rekk, Móðinn þar í hljóði bar. Auður þekk við fólið fjekk Flutt um rara gjaldið svar:

„Fram reitt dável, frítt að sjá Fjeð allt er, en seigið þjer Hvort eg má af handar snjá Hvað eitt gera, er líkar mjer?“

Biður hróðugt hirða sljóð Hrekkja bjóður nöðru lóð; Stappar rjóð í stóran sjóð Stjörnu flóða ráða góð.

Upp hún þá nam örðug stá Eyjólf grá á nasir brá Sjóð ósmáum, svo í dá Svika þráinn hníga má.

Fossar blóð um blossa rjóð Brúar óðum nú á lóð, Stansar þjóðin hans við hljóð, Hjalar sljóð við kvala bjóð:

„Narrinn þinn í þetta sinn Þvílík finnir verðlaunin, Hvar þú slinnast út og inn Um þig tvinnist hæðungin.

Til þess þrátt þú muna mátt, Mun það hátt um jörð uppskátt, Að kjaptaslátt af konu þátt Þó kaupið grátt ei falli dátt.

Hvað þig ginnir heimskan stinn Helzt eg kynni selja hinn Tignar svinna manninn minn Morðinginn fyrir sjóðinn þinn.

Við þig slækist vömm ótæk Sem vatna sækja

føll að læk, Skømm með klæki skjalli stæk, Skaða sæki fýlan ræk".

Hrikinn þver, sem háðung ber, Høndum Auði taka bauð, „Drepið þjer", svo dólgur tjer, „Dækju snauða, þó sje blauð".

Hávarð gjørir hefja svør: Hvergi má hann þessu ná, Helzt er førin heilla spør, Þó hadda gná ei níðumst á".

Eyjólfs gránar geð og lán, Gat fram leyma orðum þeim: „Gengið án er ills við smán Utan heiman taki beim".

Hindrar sveit þann heiptin beit Hrund að skaða þá með nað, Búast teitir burt um reit; Brúðurinn það við Hávarð kvað:

„Hring ósmáan hjer þú fá, Happa svinni drengurinn, Gísla frá þjer færa á Fingra linna gullroðinn".

Ferðast sá sem leiðin lá Lundur branda á Rauðasand, Hinir fá og heim að ná, Høfðu vanda mikið stand.

Eyjólfs farir ógóðar Öldin hvar til frjetta bar, Happa spar að háði var Hafður þar um sveitirnar.

Svo nam líða sumar tíð, Sveitin hýsti gagnið víst; Gísli biður baugs hjá hlíð, Burtu sízt að fara lízt.

Sanna skrár, að sextán ár Seggur snar í útlegð var Sigurhár, þar hjørinn blár Hropta spjarir sundur skar.

Það bar til um þetta bil Þegar njóla jørðu fól Drauma skil enn vart i vil Vatna sóla týr-inn ól.

Audi tjáir sidan sá: „Syndist mjer hin verri hjer Drauma gnáin birtast brá Vist og hver hún tala ser:

‚Því skal ráda ad það sem spád Þjer hid góda hefur fljód, Af skal mád, en eydast nád‘, Og svo hródug kvad hún ljód:

‚Optar vid ad eigist þid Eitrud banna goda heit, Farin nidur feigs á svid Fleyti eg mjer um þennan reit‘.

Eptir þetta andlits grett“, Alma tjáir vidur frá, „Dreglahettu á hjarnar klett Heiptarþrá mjer festi gná.

Í heitu blódi hjarna slód, Hefnda kerin þvodi mjer, Steyptist ódum æda flód Um mig beran þar og hjer“.

Svo var háa hetjan þá Hrjádur meir um þagnar leir, Einn hann má ei eirdir fá, Aukast fleiri draumar þeir.

Margur lídur mikid strid, Margur á um sárt ad klá, Allir kvida einni tid, Sem enginn má þó komast hjá.

---

# Fjórtánda ríma.

Tímar eyda øldum hljótt Eptir bodum laga, Einatt heida nidsvørt nótt Nær ad elta daga.

Ekki grunda þarf um það, Þetta reynslan gefur, Enda stundin eltir hvad Sem upphaf fengid hefur.

Blómid frjóa følna má, Flest ad einu midar, Ára gróin eikin há Eins ad falli ridar.

Æskan fríða, eins er það, Ei má stóla á hana, Verdur stríða elli ad, Sem ætíð geymir bana.

Svo er yndi elskhugans, Sem ástabøndin tvinna, Burtu synda heillir hans J hafi tídarinnar.

Vald og heidur þannig hver, Þau um tíma prýda, En opt þau leida eptir sjer J elli sorg og kvída.

Ekki er ad tala um audinn þá, Jllt og stutt hans gaman Hugar kvala áni á Einum tollir saman.

Hreystin manna ágæt er, Opt ad notum kemur, Ef heilsu bann ad hendi fer, Hún sjest ekki fremur.

Svona hrødu hlaupi í Hagi tímar skerda, Høldum glødum huga því, Hitt mun betra verda.

Huga deigum hrinda ber, Hann er brunnur nauda, Lífid eigum elska vjer, En óttast samt ei dauda.

Lífs óvørum lidur skeid Líkt hins hryggva og káta, Allir førum eina leid, Ekki er meira' ad láta.

Valda hái høfdinginn Hógvær eins og bródur Krýpur hjá þjer hálfnakinn, Hreppa Karl minn gódur.

Hann þótt amist hjer vid þjer, Hitt þarf ekki ad tvíla, Allir saman eigum vjer J einni sæng ad hvíla.

Þannig enda einum nær Allt í þagnar grímu; Svona lenda sagan fær, Sem mjer baud til glímu.

Eins mun valda endinn því Ad mjer svona gengur, Gísla haldid æfi í Ekki get eg lengur.

Sagna þáttum fram svo fer, Flóa týrinn eima, Sumar nátt þá síđust er, Situr Gísli heima.

Ekki blund í bænum má Bóndinn hrelldur taka, Silki grundir honum hjá Hryggvar báđar vaka.

Í fylgsni undir kleifar kann Konum ganga međur, Þar ađ blunda hyggur hann, Hreint og bjart er veđur.

Kyrtli rjeđu klæđast fljóđ, Kuldinn skyldi ei baga, Honum međ þær hjelu slóđ Húsa milli draga.

Gísli kefli í höndum hjelt, Heflar þađ til rúna, Spóna skeflur fær hann fellt Í förin þeirra núna.

Hann og sprundin hæli ná, Hlynur mána strauma Festi blund í fylgsni þá Og fær nú slíka drauma:

Í fugla líki læmingjar Leynt um húsin krjúpa; Eru slíkir ásýndar Öllu meiri enn rjúpa.

Volgu blóđi volkađir Voru og ljetu illa; Úti hljóđ nú heyrast fer, Högga má hann spilla.

Eyjólf kenna kominn þar; Kunni fæđi ylgja Fimmtán menn þeim vestur var Vopnum búnir fylgja.

Kyrtla slóđann kvenna þeir Kunnu ađ fylgsni þræđa; Upp þá stóđ og girđist geir Gísli kempan skæđa.

Hugar óttinn hverfur því, Hildar fús til

bødvar, Logadi þróttur ædum i, Allir bólgna vødvar.

Upp á kletta kleifarnar Komst og sprundin bædi, Nokkurt þetta vígi var Børn ef duga nædi.

Bædi kvendin hugud hjer Hetju vilja stoda, Lurk i hendi hafa sjer Hlakkir ljóma boda.

Hinir stefna hømrum ad; Hann Eyjólfur tjáir: „Nú i efni ei er þad Ad þú flýja náir.

Af flestum tjádur fullhuginn, Fleins þó vari kylja, Eins og smáda ambáttin Eltast muntu' ei vilja.

Eg um stund þig ekki fann, Illur geymir sverda, Þessi fundur allvel ann Efstur mætti verda".

Gisli kvad: „eg býst i brád Burtu hvergi snúa; Sæk þú ad, ef i þjer dád Eiga menn ad trúa.

Vid mig sakir áttu einn, Aukist leikar vorir, Þar sem nakinn fálmar fleinn Finndu mig ef þorir".

Sendir veiga svara fer: „Seggja nýt eg mergda, Skal ei eiga undir þjer Einn um býtin sverda".

Gisli freyri geira skýr Greinir veit so laga: „Enginn dreyri æru býr I þjer geitin raga".

Njósnar- heitir -Helga á Hrekkja seggur ljóti, Ad frama leiti og frægum þá Fyrstur leggi á móti.

Helgi greinir: „þekki eg þad, Þrjóskur grjerinn

knifa, Þú villt einatt ota á stað Vorum þjer að hlífa.

En fyrst þú eggjar fast um það Að fella segginn rjóða, Báðir leggjum ötult að Álfi Tveggja glóða.

Jeg á undan auka stjá Imu lundinn viður, En mannhundur þú ert þá, Ef þangað skundar miður".

Girtur sverði Gísli var, Genju spannar höndin, Kufl um herðar kempan bar, Kænn við manna gröndin.

Helgi klettinn hleypur á, Harðnar glettin róma, Gísli þetta gildur sá, Gerðum fletti skjóma.

Svo á miðjan Helga hann Hjó í iðju nauða, Sundur brydja búkinn vann Benja gyðjan rauða.

Meiðsli sútar mannskömmin Mátti lúta viður, Datt í bútum búkurinn Bana þrútinn niður.

Eysi rann í öðrum stað Upp sá friði ljetti, Skaðamanni Auður að Usla víðinn rjetti.

Hrundin lamar handlegginn, Hrósa láni átti, Ofan hamalt húðlaminn Hrökkva sláninn mátti.

Gísli lypti greinum snar Gulls við engi hreina: „Það að giptur vel eg var Vannst mjer lengi reyna.

Tilræðið eg tel ágætt, Trauðan hræða glanna, Var þó miður vörnin bætt, Enn vildi klæða nanna.

Hefði náð til hans um leið Hropta bráða skarið, Mundu hrjáðir heljar skeið Hafa báðir farið".

Geystust tólf ad Gisla þá, Gridi mundi slita, Vard nú gólfi Gøndlar á Grimmur fundur rita.

Høndla klæda tródur tveir, Trúum nádu halda, Hafa ædi erfitt þeir Alfar bádir skjalda.

Gisla þreyngjast ólmir á, Eggja lengjast hvidur, Sárum flengjast fantar þá, feigir sleyngjast nidur.

Koma saman heldur hart, Hildar gaman nærdist, Sverdid hlam á hlifum bjart, Hetjan rama ærdist.

Vo i hvidu þeirri þrjá Pundur stála herdur, Æda nidur lekur lá, Landid málast verdur.

Hlifar skerast holdi frá, Holundir þar freyda, Sárin berast ódum á Eyjólfs herinn reida.

Þar Einhamar heitir steinn Um hanars strøngu ranna, A hann ramur rennu reinn, Rofnar þrøngin manna.

Hina vardi þeygi þad Þótt ad brjóti rendur, Sækja hardir aptur ad, Einn hann móti stendur.

Hlýtur skeinur hinna hvur, Holund manna grætur, Og nú reynir Eyjólfur, Eltast hann ei lætur.

Audskotonum eggjar bar, Undir skjálfa rendur, Fastara honum hvergi þar Hamarinn sjálfur stendur.

Hleypur einn á hamarskør Hrikinn bragda fljóti, Nefndist Sveinn, en hetjan hjør Honum lagdi móti.

Fleinninn sundur flatti hans, Flengjast herdar nidur, Raudur unda ósin gaus, Andast sverda vidur.

Þannig hefur fellda fimm Frægur veitir dáda, Sóknin tefur dørva dimm, Drengir leita ráda.

Svo sjer skipt í flokka fá, Fúsir segg ad granda Spjótum, lypta ad þegni þá Þeir til beggja handa.

Þórdur heita og Þórir tveir Preknir vidir skída, Eyjólf' veita adstod þeir Á adra hlíd ad strída.

Þannig skaka mundu menn Margir spjót ad einum, Gísla vakir vørnin enn, Veldur ljótum skeinum.

Allur herinn æsir dád Ei til gódra happa, Fóru ad berast svødusár Á sóknarmódan kappa.

Vørnin staka þyngist þá, Próttinn hvetja fjendur, Idurin flaka úti sá, Enn þá hetjan stendur.

„Bídid þjer," nam bistur tjá Veitir linna keikur, „Ad oss gera medan má, Mun svo vinnast leikur".

Ad sjer tredur idrum fast, Um svo klædin vafdi, bandi ad nedan bregdur hast og búid Kvædi hafdi.

Støkkur sá fyrir bergid blá, blossa Práins velti, Sverdi brä ad Þórdi þá, Þann rjed flá ad belti.

Hlynur víga fellur frá, Fossar sveiti raudur, Gísli hnigur ofan á Ad øllu leiti daudur.

Daudans kreisti kuldinn þá Kempu búk, sem deydi, Ønd med hreysti hvarflar frá Hefndasjúk í reidi.

Þar sem krjúpa mestur má Móðu fengur glóða Allra drúpa hugir hjá, Hrøkkur strengur ljóða.

# Fimmtánda ríma.

Fyrri aldar feðurnir, Frá er gengur saga, Hrós margfaldað hafa sjer heims um lengstu daga.

Hurðar ála ekru þjóð Undir jøkulfjøllum Ljetu mála løndin blóð Listum kunnir øllum.

Kunnu að henda hárbeitt spjót Hreysti kempur nýtar, Álma benda og eggjamót Eigast við til hlítar.

Kunnu sund um síldar vøll Sels að háttum brúka, Á skíðum grund og fanna fjøll Fuglum líkir strjúka.

Reyndu afl við ýmsa þjóð, Optast fengu betur, Æfðu tafl og hørpu hljóð, hagleik, rúna letur.

Sagnafræði festu í hug, Flutt með háttum vøndum Þeirra kvæði fengu flug Fræg á Norðurløndum.

Svo var áður sveitin prúð Sífellt lista iðin; Nú er dáð úr landi lúð, En letin yfir skriðin.

Okkar løndum íþrótt flest Endurlýnist núna, Þeirra hønd og hjarta er fest Við hnøttinn silfurbúna.

Fyrnist grundin, þróttur þver, Þokast margt úr lagi, Svo um stundir fram nú fer Fleiri' en eg þó klagi.

Þøgnin hæfir heimskum mjer Hjer svo engan sneiði, En hamingjan gæfi að heilskygnir Hina blindu leiði.

Søgu fróða enda að Áfram dragi hróður, Helzt til góða haldi það Himinfræða bjóður.

Mennta vini er safnar sjer Sæld og virðing bæði Gísla syni Gísla vjer Gísla færum kvæði.

Ósk a eg grein frá minni mund Menta vini fróda Stytti
eina ama stund, Sem ellin kann ad bjóda.

Fródur prestur frama ber Flesta yfir hina, =Hóps= á
=vestur=hólum er Herrans gætir vina.

Andarfræda eg oldung kved Æru prýddan bádum,
Óskum gæda allra med Eins í heimum bádum.

---

Þar var skard fyrir skildi ad sjá, Skjóma
þjádur naudum, Kappinn vard ad Køldum ná
Og kraup ad Þórdi daudum.

Eptir stóru høggin hans, er hellti unda bárum
Allir vóru álfar brands Ærnum slegnir sárum.

Bragnar frá því segja sann, sá er þoldi skeinu,
Øngvir sáu hopa hann Høggi undan neinu.

Þar sem pløggin þundar skar Þokka Kempan
stinna Sídsta høggid hvergi var Hinu fyrsta
minna.

Tala søgur sannar frá, Sendir mundar jaka,
Sinum døgum ekki á Attan hafi maka.

Kunni sund og rúnir reist Rád sem ljet ei
skeika, Var ad undrum aflid geyst, Allra fimur
leika.

Forspár hann og hygginn var, Huldu gæddur
skini, Trúskap manna mestan bar Medan hann
átti vini.

Þar sem daudur hnigur hann Hordu undir
grjóti Dysja kaudar dáinn mann Dyggda fjarri
hóti.

Audi býdur oddvitinn Í Otrardal ad búa,
Neitar blid med bleika kinn Blómid kvenna trúa.

Andads tekur illur hjør Eyjólfur hinn grái;
Sidan ekur fyrda før Fram ad ranga mái.

Þegar báru byggdum ná Brjótar skapta grid-
ar, Einn af sárum andast þá Og annar dægri sidar.

Einnig dá hinn átti fann Um þótt tima steyri;
Hjer má sjá hvad heljarmann Hýddi þá med geiri.

Dýrast seldi frægur fjør, Felldi átta drengi,
Hans um veldi vørnin snør Vidfræg gjørdist lengi.

Hvals um gólfin heidu þá Hann er þóttist
sigra Bjóst Eyjólfur byrding á Børk ad finna
digra.

Þangad kemur, flutti frjett, Fagna Børkur
nádi, Svørin fremur silkistjett, Svonab óndinn
tjádi:

„Vil eg fagnir vinum þú Víst í bezta hóti";
Dofra sagna seljan nú Svørum kom á móti:

„Gisla bródur gráta má Gengin heljar sporin,
Er ei gódur greidi þá Ef grautur verdur borinn?"

Þegar fædu fram hún bar, Felldi spæni
nidur, Leita rædur lotin þar Lengi gólfid vidur.

Sverdid Gisla øtul ad Eyjólfs fótum tekur,
Sárahrislu breida blad Brátt ad kauda skekur.

Gegnum lærid lagid frekt Leidan nádi skera,
Sárid ærid ógurlegt Øllum þótti vera.

Børkur tekur brúdi þá, Bistum hreifir ord-
um; Henni skekur fleininn frá, Fólkid hrindir
bordum.

Eyjólfs þrætur aukast þá, Ordum hreifir køldum, Honum bæta Børkur má Blakid full-um gjøldum.

Þórdís nefna votta vann Varla hýr í bragdi, Af bana efni bródurs þann Børk vid skilid sagdi.

Heiptir geldur hrundin hvøt, Hefnist Gísli sterki, Aldrei heldur undir føt Optar kom med Berki.

Bóndinn styggdist þó vid þad, Þanka sleppti glødum, Hann tók byggdir Eyri ad Á Þórdísar-stødum.

Vesteins kundar ungir enn Eira litid vestur, Á Rauda- skunda -sandinn senn, Sveinum fagnar Gestur.

Med sjer sitja bóndinn bad Brædur happa ríka; Þangad vitjar Audur ad Og Godrídur líka.

Bóndinn fremur sóar seim, Sogna Kaupir vara, Utan kemur øllum þeim Yfir løndin þara.

Gísla bródir Ari einn Eptir hlýra sinna, Noregs lód þá nádi sveinn Nam á Bergi vinna.

Grænlands heldur Helgi til Hafla stordar meidi, Honum seldi audnan yl, Eldist þar og deydi.

Um Audi lengur lesa menn, Lærdi trúna fróma Hún, og gengur sudur senn Sorga drjúg til Róma.

Lengi skadann muna má Mesta snilldar kvendi; Aldrei þadan Audur frá Aptur nordur vendi.

Ari keypti arfi Súrs Igultanna flóa, Gøtur hleypti brimla búrs Bólmey undir snjóa.

Land sjer vann með lófa snjó Lista Kempan snara, Á Mýrum hann að Hamri bjó, Hjeðan ættir fara.

Frá mjer þokist óðar önn Um sem mátti sýsla, Hjer er lokin saga sönn Súrs af Kundi Gísla.

Allt hans kalda æfifar Áma slegið vindum, Landsins, alda og lukkunnar Lýsir órjettindum.

Langt fram yfir vondra vild Vísan þessi stendur: Dáins lifir dyggð og snilld, Deyja lygð- og fjendur.



Kostar heft í kápu 32 ß.

